# THE A.B. OLSON COLLECTION



PRESENTED TO THE UNIVERSITY OF MANITOBA

1936

JÓN RUNÓLFSSON

# ÞÖGUL LEIFTUR



*Arnljotur B. Olson*

WINNIPEG
KOSTNAÐARMAÐUR: SVEINN THORVALDSON
1924

4.

*Arnljótur B. Ólson*

## ÞÖGUL LEIFTUR.

Nú fellur vængjum aftans af
  í alkyrð húmið grátt;
og leiftrin þögul líða hjá,
  sem lifa í vestur-átt;
þau bruna ljósfleyg austur um
  hinn endalausa geim
sem sálir ljóss, er sjafnafund
  nú sæki í austurheim.

Og meðan rökkvar aftni af
  jeg eins á flug mjer slæ,
og æskusvið mitt austan hafs
  í anda nálgast fæ.



Eg birkihlíðar brosa lít
og býli dalsins lá,
en grundir fagrar ganga fram
á gljúfrin elfar há.

Eg heyri' 'inn forna elfaróð
sinn endur hefja nið,
sem ymur dýpst er dimmir að:
í djúpum kvöldsins frið.
Hjer hafði eg lífs míns ljúfust blóm
í ljósi vona kyst,
hjer leiddi eg hana, er ann eg enn
og elskað hafði fyrst.

Þótt mín sje liðin æfiár
í útlegð mörg og köld,
þá læt eg þau nú liðin hjá
sem leiftrin þöglu í kvöld.

Það líður fram við leiftur-sýn
mitt ljúfa æskusvið.
Mjer hljóma raddir heiman að
í helgum kvöldsins frið.

# SEFÝRUS

## eða guð vestanvindsins.

[illegible]

Á vorkvöldi síðla jeg sveima
í svífandi blíðviðris ró,
og er þá í dimmunni að dreyma
um dýrðina handan við sjó.

Við æskunnar uppsprettulindir
í anda jeg svölunar nýt;
og hugarins margþreyðu myndir
í minninga-speglinum lít.

Frá blómunum andar og angar
svo ástblítt, en tregandi-þrá
eg brenn, því mig lifandi langar,
að lyfta mjer sljettunni frá.

Og kvöldbjarminn heiðgullinn hikar
sem hug mínum vilji hann ná;
og laufið á kvistunum kvikar
og hvíslast í golunni á.

Í austrinu blástjarna blikar
sem blaktandi gleymdu-mjer-ei,
og aldrei úr horfi hún hvikar
um hársbreidd að feðranna ey.

Í vestri hann hikar og hikar,
eg held þó hann sigri mig ei:

í austri hún blikar og blikar
og bendir að feðranna ey.

[illegible] ómar sem angurblíð harpa
frá æskudalshlíðunum þeim,
og huganum viðkvæmt eg varpa
með vængljettum Sefýrus heim.

Því Sefýrus blævængir blaka
í bláheiðum vornætur geim,
með elskhugum vestursins vaka,
að varpa þeim sárfegnum heim.

Um kvöldgáttir sólar hann svífur
með sólkveðju-brosið í hug,
og kyssandi, hressandi hrífur
hvern hrygðsleginn anda á flug.

Þá yngist upp ættjarðarþráin
í íslenzku brjóstunum hjer;
já, margt er á sveimi um sjáinn
er Sefýrus vestan að ber.

Og austur um ómælisleiðir
sem elskhugi líður hann hljótt,
að sjá þar sem sólin sjer greiðir
við sæinn á Jónsmessunótt.

Já, þannig til dalanna duldu
svo dularfull heimsókn er gjörð;
hann svífur með hug vorn á huldu
að helgidóm lífs vors á jörð.

Hve ljúft ei, ef sár vilja svíða,
með Sefýrus vængljetta þeim

að mega þá lyftast og líða
með langanir hjarta síns heim

í dalskautið draumfagra, blíða,
þars dvöldum vjer glaðasta stund
við silfurspil syngjandi hlíða,
með sólskin í barnglaðri lund.

Ef erlendar þrautir oss þreyta
á þungsóttri frumskóga braut,
er huganum hægast að leita
sjer hvíldar við ættjarðarskaut.

Því fjaðrir hans hafið ei heftir:
á hugðvæng um ljósvakann blá;
hann svífur, þótt sitjum vjer eftir
með söknuð og ættjarðarþrá.

Ó, Ísland! vort ættlandið fríða!
vort eigið í hagsæld og þraut.
Guð komi í blænum þeim blíða,
að blessa og frjófga þitt skaut.

Guð elskunnar blævængjum blaki
að blíðhugar varmanum þeim,
er rís nú að bænanna baki,
og barnið þitt hjer sendir heim.

(5. júlí 1899.)

## Viðbætir,

sem varð ósjálfrátt til er eg var að ljúka við kvæðið.

### Sefýrus ber kveðju.

Hógvær af hafi
heimfús andi,
blíðhugs bróðir,
blæ guðs líkur,

fagur fulltrúi
frónskra barna.
handan hafs --
heilhug varpar.

---

Bygt hefir brú
úr blíðhug nú
yfir um hafið
og ekki tafið,
hollvinur beztur
og heilhugs gestur.
Kjassandi, hressandi,
kyssandi, blessandi
bygðir og bú.

Engan skal ugga —
alt að hugga --
kominn um glugga

á kvöldsins skugga
í blænum blíðum
á blævæng þýðum,
að kjassa, hressa
og kyssa og blessa:
strendur, standberg,
stapann, gnapið,
vör og ver og
vorið, þorið,
segl og siglu,
sæinn, daginn,
ýta úti,
arðinn, garðinn;
skipið, skapið
og í skuti hlutinn.

## TAKTU Í HÖND MJER.

(Flutt í samsæti sem höfundinum var haldið 12. maí 1913, í Winnipeg, áður en hann lagði upp í Íslandsferð)

Taktu í hönd mjer; þess hef eg þörf;
mjer þorrinn er hugur lítt.
Hið sanna er hjer, að manni sem mjer
vex megin við handtak hlýtt.

Um dal hef eg gengið dáinnar þrár
dulur og fár við menn,
og hælis leitað, en það var ei þar,
og því er mjer hugþungt enn.
Einum er trú og öðrum von
ylsól á vegum skír;
en þinnar handar eg þarfnast og,
að þróttur mjer vaxi nýr.

Skapþungt mjer er, en eg sigra samt,
ef samúð þína jeg vinn;
þá hverfur mjer lífsins lúaþraut,
sem lagðist á huga minn;
og æskuþrána aftur þá,
sem eg hjelt dána', eg finn.
Eg dríf mig upp fyrir dalsins brún
og dreg þá andann um sinn.

Þá kem eg til sjálfs mín,
syng og kveð; en svífi jeg austur um ver
og hælis mjer leiti í heimi þar
sem hjartað sló fyrst í mjer. —
Þú sakar mig ei; þitt svík eg ei traust
þótt svelli milli höf,
því það sem eg yrki og í mjer er bezt
þig eignast læt eg að gjöf.

Svo taktu' í hönd mjer: þú átt í arm
þá orkuvakning mjer,
sem kveður mjer hljóðs til gagns og góðs
og — gleði, ef til vill — þjer.

## MINNI ÍSLANDS.

Winnipeg 2. ágúst 1921.

Nú á hugvæng eg flýg upp' í ljósvakans
lindum,
eins og leiftur í dag yfir hvítfextum sæ,
lengst í ómælis firð heim að ættjarðar-tind-
um,
og í andsvalan fjallgolu-ljúfteig mjer næ.
— Einhver undramynd loks út'í hafsauga
hefst,
sem í heiðblámans ljósofnu silki þar vefst!

Dýrleg háfjalla sýn! Landið vorhuga vakið,
eins og vegsamlegt sjálfstæðis fordæmi rís.
Ber það harðangursspor? Er það hrjóstrugt
og nakið?

Hvort, mín hjartkæra þjóð, ert þú nokkuð
þess vís?
Ó, hve guðsfeginn yrði' eg ef ort gæti eg ljóð
nú til árs þjer og blessunar, land mitt og
þjóð.

Morgun þróandi lífs, morgun freistandi
framtaks,
morgun fullveldis skín og þig vekur með
koss;
hann þig kallar, mín þjóð, fram til sýslu og
sánitaks,
að til sæmdar, en skammar ei, verði slíkt
hnoss.
Vit, að sjálfstæði næst með að rækja sinn
rjett —
og með ráðsnjallri starfshyggju takmarkið
sett.

Þú ert móðir vor ástkær og umhugsun tíð-
ust,
þú, vor ættjörð, og — bezt þess, er hjartað
fær dreymt;
og oss þykir sem sjertu sú fjallborgin fríð-
ust,
þar sem frelsisins hjarta frá öndverðu er
geymt.
Tak nú, móðir vor ástkærust, sjálfráð þinn
sess
meðan sólsetursbörnin þín kveða þjer vers.

## ÞEIR SPURÐU — VJER SVÖRUÐUM.

"Ó, seg oss," þeir báðu, "hve fleyi fám
vjer forðað við þessi sker,
sem grunnsævis aldan ríður rám."
"Róið þjer," sögðum vjer.

"Ó, seg oss," þeir báðu, "hve seiða má
sorgirnar brjósti úr."
Til svars vjer aftur sögðum þá:
"Sofnið þjer væran dúr."

"Ó, seg oss, hve hana sigra má,"
þeir sögðu, "er dýrst oss er,
svo varpi hún líf vort ylsól á."
"Elskið þjer," sögðum vjer.

## MÓÐIRIN ÚT MEÐ SJÓNUM.

(Syngur við drenginn sinn.)

Í nótt er svo kalt
og ömurlegt alt;
þjer, barnið mitt blítt,
við barm minn sje hlýtt.
Geisar kolblikað kaf,
orgar kynjafult haf
við grandann í gríð
í grenjandi hríð,
og óveðurs guðinn í úlfshami grá
sig teygir á tá
yfir tindana há.

Og pabbi á sæ,
en bí-bí í bæ
eg syng við minn svein
í sorginni ein

meðan brimveldið blátt
rífst við blindhríðar mátt
um fiskimanns fjör
og fisljettan knör.
Æ, sofðu nú barn mitt. Á verði jeg verð
meðan voði' er á ferð,
og þótt sál nísti sverð.

Hjer bý eg í bæ
við brimhljóðið æ. — — —
En láti' hann sitt líf,
sje líf mitt þín hlíf. — — —
Heyri eg hvimleiðan hvin
líkan helreiðar dyn,
og svipir af sjá,
mjer sundvotir hjá,
og hafið mjer opnast með brim sitt og böl;
rjúka feigðardjúp föl,
sje jeg föður á kjöl.

Lít í náð á mín tár,
guð himnanna hár;
lát stórsjóa stríð
nú stöðvað og hríð;
vertu hjálp hans og hlíf;
hríf úr háska hans líf,
þess bið eg og — bíð
unz birtir upp hríð.
Æ, sofðu nú, barn mitt. Á verði jeg verð
meðan voði er á ferð,
og þótt sál nísti sverð.

Heyrði móður orð sár
guð himnanna hár;
því að stórsjóa stríð
nú er stöðvað um síð,
komnir sjómenn af sæ;
nú er sólskin í bæ,

því að faðirinn fljóð
sitt faðmar og jóð.
Guð kærleikans vakir með ylsól á arm
yfir fiskimanns farm;
yfir fátækt og harm.

---

## TVÍBÝLI HJARTANS.

Gleði og Sorg heita systur tvær,
sali hjartans tvo byggja þær.

Sorg býr í öðrum nú sofnuð frá grát;
syngur í hinum Gleði kát.

Gleði er hávær og gamansöm;
gráthljóð er Sorg og amasöm.

Gleði, þú mátt ekki glymja of hátt,
getur skeð systir þín vakni þá brátt.

## UM MIÐNÓTT.

Um miðnótt máninn glóði
á maíblómin fríð,
og Elskan hugði jeg alsæll þá
mundi eilífa vara tíð.

Nú glóir miðnótt gaddi —
greftruð er Elskan blíð.
Nú þykir mjer indælla öllu það,
að örstutt lífs er tíð.

## FÁNINN BLÁI OG JÓLIN.

### 1918.

Hvert undur blaktir við Effelsturn*)
svo óvenjulega blátt?
sem hafi þar frumburð hafsins sál
og heiðbláminn saman átt.
Það furðutákn sagt er fáni sá,
er frið boði heimi og sátt.

í nítján hundruð og átján ár
fyr enginn dauðlegur sá
slíkt feginstákn síðan frelsarinn dýr

*) Himinblár fáni — friðartákn Alþjóðasambandsins — blakti yfir þinghöll þess í París.

í fátækum reifum lá,
og fæðingarstjarnan fagra hans
skein fyrstu jólum á. —

— Ó, Belgía, Serbía, Svörtufjöll
og sárpínt Frakkaláð! —
Þú Armenía, í nauðum níst
og níðingum eydd og þjáð —
ei fegri yðar var fórnargjörð
til frelsis og lífs sjer háð.

En drottinn sá, hve dreyra þá
var drifið jarðlífsból,
er örlög heimsins hjengu á taug,
en hervaldsúlfurinn gól
á altari guðs og úti um vang
sem ögrandi vítis tól.

Og friðarins engill bjartur bljes
  á bölva-skrímslið dökt,
og hervaldi grimmu heimsins var
  og herrum þess, burtu stökt. — —
Hví jólasólin svo skýlaus skín:
  það skiljum vjer nú glögt.

# MIG HEILLA ÞÆR HÆGSTRAUMA LINDIR.

"Guð var ekki í storminum,
Guð var í hinum blíða blæ."

Mig heilla þær hægstrauma lindir
í haglendið iðgræna, bjarta.
Mig lýr þessi brimsjóa bræði,
sem brýtur mjer sífelt við hjarta.
Mig langar úr útlegð. Eg engan
á að, sem mjer vinarhönd rjettir.
Eg þrái nú blíðviðris blæinn,
er beljanda stormsins fer eftir.

Seg ekki, að alt sje lífið,
ein eilíf, hvíldarlaus senna,
fórn ástríðna tindrandi tundra,
sem taugarnar spenna og brenna.

Hvort spegla' ekki heiðvötnin hæðir
guðs himins í einskærum friði?
og líða þau eigi að ægi
fram engið með lífsöngva niði.

---

Eins þrái' eg í heiðlindum hugar:
frið himins að spegla sig megi,
og til liðsinnis stundum þeim standa,
sem stríðandi finna hann eigi.
Ó, fagnandi' eg eitt sinn kem utan,
og útlègðartárin mín sjatna,
og hvíli í haglendi grænu
við hægstreymi lifandi vatna.

## ÁRDEGIS.

Á björtustu stund þeirri er árdegið á<br>
flaut elfur í gullljósa-straumum.<br>
Lífið þeim sætasta blundi brá,<br>
og blóðrjóð stóð Áróra Röðli hjá,<br>
rjett vöknuð af vorsins draumum.

Á sumarmorgni með silfurtár —<br>
sól byrgir þokan og strauma;<br>
hún bylgjast sem ylgja á bökkum ár,<br>
því blæviðrið stígur — sem andvarpan sár<br>
eftir nætur dulráðnu drauma.

En nóttin tállhvílu einungis á<br>
þeim æskunnar hálfvöku draumum. — —

Það blakta hjá elfinni á stangli strá,
en stráin hjúfrandi daggperlum gljá —
sem titrandi tárastraumum.

Og elfurin streymir með stiltum nið,
en straumþunga jöfnum í hafið.
Stráunum tárugum tekur hún við,
af táldraumum nætur og hylliboðsfrið,
og þá er alt gleymt og grafið.

## FROSTNÓTT.

Er sunna vorsins ljómar ljúf og blíð
og lífi vekur sjerhvert foldarstrá,
og hnappar brumsins þrútna öngum á
og anga sætt um dalsins grund og hlíð, —
eg sjeð hef þá, er naumast birtu brá
um bjarta nótt, og fór eg einn um dalinn,
á stöngli sínum standa eftir kalinn
í stundar hjelufrosti hnappinn smá.

Og meðan sól með sigri ljóssins fer
og svellur alt af gleði lífs og þrá,
um árdag vors í döprum dróma þá
með dauðans koss á brá þú hnappinn sjer.
Þjer sumarblómin fagna fersk og ný

og fagra kránsa dalsins börn sjer hnýta,
en hver mún þá við litla hnappnum líta,
er líf og sumar baða rósum í?

Hann angar ei, hann engan blóma ber;
hans blómtíð hvarf sem hugþreyð sýn í draum,
og samt hann finnur lífsins ljúfa straum,
er logar heitt og um hans stöngul fer.
Kom, vinur smár, og hníg að hjarta mjer,
því hver veit nema böl þitt vel eg kenni;
þótt hjarta mitt í loga lífsins brenni,
það líka snortið kossi dauðans er.

## TIL SÍRA JÓNS BJARNASONAR.

(Flutt í samsæti, sem honum og konu hans, frú Laru Bjarnason, var haldið mánudagskvöld 15. nóvember 1909, þá er hann hafði veitt Fyrsta Lúterska söfnuði í Winnipeg prestþjónustu í 25 ár.)

Fimm sinnum fimm hafa vorin,
frjóva-ngjum lífmagna borin,
komið og sáðlöndin gullaxi glóð.
Fimm sinnum fimm hafa jólin
frumbyggja ljómað upp bólin
meðan oss leiddi þín leiðsögn góð.

—

Forystulausir vjer fórum,
fráviltir sauðir vjer vórum;
tvistir og dreifðir, með þunga þrá.

Mintist þá guð vor í mildi,
margfalda þörfina skildi:
 gaf oss þig, forvörðinn fríðasta, þá.

---

Þökk er oss kært nú að kvaka,
kært líka með þjer að vaka
 aldarfjórðungsins efstu stund,
líta' yfir leiðina farna:
landnámið þessara barna;
 líka hve drottins er máttug mund.

Þökk fyrir sigur og sóma:
sjálfsfórnardæmin, sem ljóma
 gullstöfuð nú þínu nafni frá.
Fornheilög óðul vors anda
óbrotgjörn lengst munu standa;
 varði þau guð og þín hyggjan há.

## SONNETA

### til Miss O. S. Sveinsson, kennara.

(Ort undir nafni skólabarna hennar og flutt í skógargildi, er hún hjelt börnunum að skilnaði, 1. júlí 1910, við Íslendingafljót.)

Hjer, þar sem fljótsins gullnu öldur glitra,
við grænskóg undir júní himni bláum,
þjer, hjartans mær, úr hugarblómum
smáum
við hnýtum krans, en hjörtu okkar titra
sem espilauf í andblæ er við kveðjum
þig, börnin smá, sem andans auð þú nærðir
og okkur gafst hið bezta, sem þú lærðir.
Við elskum þig, og okkur við það gleðj-
um. —

Þótt ung sjert þú með rós á vör og vanga,
 þitt vegmark sett, í andans hæðir lokkar.
Þig blessi guð um daga lífsins langa
 og laði þig að sínu hjarta og okkar. —
Ó, tak þau hrein sem júníheiðið skæra,
vor hjartans gleym-mjer-ei, þú átt þau,
 kæra.

## TIL JUNGFRÚ — — — —

Þú syngur inn í sálu mína hljóm;
í sólblæ verú þinnar berst hann mjer
og vekur mjer í hjarta vanhirt blóm,
sem vildi eg feginn rækta og helga þjer.

## STEFJABROT.

(um Einar listamann Jónsson, flutt í kveðjusamsæti, er honum og konu hans var haldið í Winnipeg 14. september 1918.)

Mjer þykir sem hefjist úr hafsins bóli
í heiðbláa nálægð vor ættjarðarfjöll,
og Fjallkonan tignprúð á stuðlabergs stóli,
með stjarnfjallað skautið hvítt sem mjöll,
nú hugskeytum breiðfleygi' um bláleiðir
hreinar:
"Eg bið ykkur, vestur þar, fyrir hann
Einar.
Með virktum hún má og af kúrteisi kyssa
'ann
hún Kólumbía: það sæmd mjer eg finn;
en, börnin mín, þið vitið eg má ekki missa'
'ann
og minnist þess jafnan að hann
er dýrasti drengurinn minn."

Þau hugskeyti móður oss feginleik fylla,
því fjarvistum skiljum vjer ást hennar
bezt.
Hvort mun oss ei ljúft þá að heiðra og hylla
vorn hjartfólginn bróður og aufúsugest,
þann frömuð, er listanna megin-myndir
ljet meitlaðar, skírðar við sagnanna lindir,
í fylkingum hefjast sem helga dóma,
er heimur lista mun síðan dá,
því verkin hans Einars lifa og ljóma,
og ljósið frá Sökkvabekk skín,
á "Einbúann" austur í sjá.

Því efst upp að Sökkvabekks helgum hörgum
hans hugsjónir flugu og sókndjörf þrá
sem hvítir fálkar að himinbjörgum,
er heiðblámann fleygustu vængjum slá;
en valfleyg hugsjón, í þrá við þrautir
og þyngstu búsifjar, ryður sjer brautir.

Nú stendur hann eins og stuðlabjörgin.
og stöpull frægðar og sæmd vors lands,
því myndirnar sínar hann hjó við hörginn
er í hugsjá andans hann sá,
og lifa í listverkum hans.

# KVÆÐI

## til Frú Margrjetar Thorvaldson.

(Flutt í heiðurssamsæti, er henni og manni hennar, herra S. Thorvaldssyni var haldið að Íslendingafljóti 14. júní 1912.)

Heill sje þjer, húsfreyja góð — — —
en hvarfla nú þangað eg má
er endur með unglingum þig
sem ungmey í skóla jeg sá.

Þá varst þú ung, svo ung
sem engrós á gróandi storð,
og lífið var ljóð, er þú söngst
og ljúftónar vorsins hvert orð.

Svo sviphrein mjer sýndistu þá
  sem sólroð á vorhimni blám —
en hve eldskörp og ítur þú varst,
  og elja þín frábær við nám.

Þá sagði' eg við sjálfan mig þrátt:
  Hún sigurdrjúg reynast mun æ
í baráttu lífs og þess lands,
  sem lokkaði' oss vestur um sæ.

Því þreklyndi, þrautseigju spor
  og þróttmikla alvöru eg fann,
en hinsvegar ylsól: það alt
  í auga þjer tindraði og brann.

Nú sannreynd að sigri þú ert;
  þótt svolítið hafir þú elzt;

hvort sigraðir þú ei þann svein,
er sæmd vor og frömuður telst?

Og sannauðgur sagður er hann,
það sannlega mikils er vert;
en ríkið er hálft ef ei heilt,
þar heima, sem móðir þú ert.

Heil sjertu, húsfreyja kær!
— Þar heima sem drotning þú skín.
Ó, ætti jeg lífsöngva ljóð,
það ljóð skyldi' eg yrkja til þín.

## PERLA LÍFSINS.

(Um Maríu litlu dóttur Sigfúss bróður míns.—Höf.)

Ein langdýrsta perlan, sem lífs finst í sænum
er ljósglöðust smámær, sem hjer finst í bænum

með sólstráðu lokkanna hrynjandi hrannir,
sem hringast og veltast um barmsins fannir.

En hvað hún er skrítin; það skilið ei fær hún,
hve skjótlega valdi á hjarta mjer nær hún.

Í heiðveldi augnanna táraljós titrar
sem tindrandi skúr, er und sólinni glitrar.

Og alla þá grátfegurð öðlast hún hefur,
sem eygló í táradýrð regnbogans vefur.

Samt kemur hún stundum svo kímin og glettin,
og kyssi eg þá hönd hennar: tekur hún sprettinn

og byrstir sig til mín; svo brosir hún aftur,
en brosið það, það er sigursins kraftur.

Úr brjósti mjer sársaukann bros hennar tekur;
hið bezta, sem til er í sál minni' hún vekur,

sú lífsperlan dýrsta, sem yndi er öllum —
nei, engin finst þvílík í kónganna höllum.

Ó, gráti hún, er þá sem dimmi í dölum
og drúpandi hrygðarský grúfi yfir sölum;

en hlæi' 'ún og syngi' 'ún og hlaupi' 'ún til
ömmu,
þá hlær líka vonarsól pabba og mömmu.

Eg vona 'hún dafni. Eg veit að hún lifir
og vonarljós tendrar hún gröf minni yfir,

sú lífsperlan dýrsta, sem yndi er öllum —
nei, engin finst þvílík í kónganna höllum.

## ANDREA LITLA.

Þú flýgur í fangið á mjer
og flaksandi er hárið á þjer,
þú leggur mjer hendur um háls
svo hugrökk og einbeitt og frjáls,
svo býður þú vangann og varirnar heitar,
þú veizt að það sigrar; en að hverju leitar
þú, sóleygjan sveitar?

Í augu mjer horfir þú hýr;
í huganum sje jeg hvað býr;
þú átt við það, elskan mín góð,
að yrki jeg nú um þig ljóð. —
þótt kystirðu heitar og kystirðu betur,
ó, kærasta Andrea, hönd mín ei getur
þjer ljóð fært í letur.

Og samt vil eg segja þjer eitt:
þitt sakleysi hefir mig veitt,
þín einlæga, sólblíða sál,
þitt sigrandi barnlega mál.
En kossinn, sem þú mjer af gæðunum gefur,
þig grunar ei neitt um það vald, sem hann
hefur
er kvæðis þú krefur.

Þú leikur þjer ljósglöð og ung
fyrst lífsreynlsan enn er ei þung.
og áhyggjur ama' ekki' að þjer,
því allar hún mamma þær ber.
Við handleiðslu mömmu er dlýrðlegt að
dreyma
er draumálfar bernsku á gullvængjum sveima
um hagana heima.

.... .....

## NEI, ÁNÆGÐ, SÁL MÍN, EI ÞÚ SKYLDIR VERA.

Nei, ánægð, sál mín, ei þú skildir vera
að öllu. Vit, að hitt mun sönnu næst,
að sjálfsánægju sízt þeir merkið bera,
er sigur-fjalla brattann klífa hæst.

Því sjálfsánægja á skylt við mettan maga,
er metur jafnvel dýrast svefnsins náð;
en afreksverkin hafa heims um daga
í hvíldarlausri framsókn verið háð.

Hið litla fræ í moldar-myrkra hreysi
ei mundi blómaskrúði signa láð,

ef það ei hreyfði innfætt eirðarleysi;
  það undra vald, sem frjóögn hver er háð.

Ef feður vorir æ sjer hefðu unað
  með ánægjunnar djúpu ró í sál,
þeir hefðu ei um sæ með sigri brunað,
  nje sjótir frónskar talað íslenzkt mál.

Met þitt, en vertu' ei ánægð þó með öllu,
  því óhægð sálar til er heilbrigð, góð,
sem inblæs þrá með andans ráði snjöllu
  að inna af hendi gagnsemd landi og þjóð.

Svo þegar friðlaus hugþrá sú vill svifta
  þig sjálfsánægju, hrygð þá enga ber;
því það er andans rödd þjer upp að lyfta
  til iðju; en það er — guð í sjálfum þjer.

## Í SAMTÍÐINNI.

Einn lítur yfir löngu gengin spor
og ljúfar myndir hugans sjer þar vaka,
og skilst þá fyrst, að lífs er liðið vor,
og langar sárt að hverfa nú til baka.

En annar væntir eftir því að sjá
sitt auðnudaga skaut í framtíðinni;
hve indælt lífið veit hann verður þá
og vill því komast fram úr samtíðinni.

En jeg — jeg elska sunnu dags í dag;
hún dyrnar opnar mjer á framtíðinni;
í örmunum hennar yrki' eg nú brag
og uni himinglaður samtíðinni.

## SPEGILLINN.

(Ort á miðju Atlantshafi um miðnætti, í maí 1913.)

Í heiði stjörnur himins fjær
nú hafsin stafa lind;
að spegli skærum þyrpast þær
sem þekki eigin mynd.

Er hingað þínum himni frá
þú, herra ljóssins, sjer,
ó, kom og sjá þig sjálfan þá
í sálu minni hjer.

## KVENNA MINNI.

(Kvenfjelag Vesturbygðar hafði boðið prestum og þingmönnum Kirkjufjelagsins íslenzka í Vesturheimi, er hið fyrsta þing þess var haldið í Minneota í Minnesota, ásamt öllum Íslendingum úr báðum bygðunum þar í kring, til veizlu í ræktuðum skógarrunna á bújörð herra Árna Sigvaldasonar og konu hans, Guðrúnar Aradóttur.)

Með kvenna minni kem eg nú
í laufsal hjer til göfgra gesta,
er hvorki salt nje súrdeig bresta,
að andans megi batna bú.
Þær fagna, því þær fá ei varist
að fagna þegar vel er barist;
en það er ættgengt erfðalóð,
sem einkum vermir kvenna blóð.

Þær hafa hlýtt á tímans tal
og tendrað hetjum þrótt að stríða,
þær vita, þótt þær verði að hlýða,

að Freyja heldur hálfum val.
Þær elskað og sjer offrað hafa,
að elska og stríða er þeirra krafa,
og þótt á huldu í heim það sje
þær hæst upp lyfta krossins trje.

Var það ei kona er síðast sást
við særða, blóðga Herrans fætur,
þar krjúpa viður krossins rætur,
er mannsins líkn og liðsemd brást?
Og var það ekki einnig kona,
er uppfyllingu fyrst leit vona
er bjargi grafar bylt var frá,
og bjartir englar stóðu hjá?

Þær hafa vakað verði á
til frelsis og til fyrirmyndar,
en er þó kent um upphaf syndar

og jafna þeim við mann ei má.
Þær lotið hafa í lægra haldi,
þær lotið hafa mannsins valdi
og jafnvel mörgum bjargað þeim,
er böndin fastast reyrði' að þeim.

Þær unnið hafa af ást og trú
til líknar þeim, sem þjáðir vóru,
og þeim, sem villir vegar fóru
þær hafa bygt til himins brú.
Hvort haldið þjer þá, herrar góðir,
um háleitt andans ráð svo fróðir,
þær eigi að hylja höfuð sín,
er heimsdýrð öll oss mönnum skín?

Eg kveð ei sízt um konur nú
af eigin þjóð, sem standa í stríði
til velfarnanar veikum lýði,

og leggja stein í lífsins brú,
sem hvorki eld né elju bresta,
að efla og glæða vort hið bezta.
og binda trútt sitt bandalag
til bjargar vorum trúlífshag.

Þær gleðjast nú á góðri stund
og heillum árna heiðursgestum,
sem unnið hafa framar flestum
af kærleikshvöt og ljúfri lund. —
með sólu fegra sannleiks-merkið;
en sjálfur drottinn blessar verkið.
Sjá, þokan er nú þegar dreifð,*)
af þýðum blævi andans hreyfð.

*) Á þessu þingi flutti sjera Jón Bjarnason fyrirlesturinn "Út úr þokunni". — Hof.

# Í BRÚÐKAUPI

**Sveins Björnssonar og Ingibjargar Jósefsdóttur**

Drósir jafnt sem drengir
  dýrstan kveði brag,
gullnir gígjustrengir
  glymji hátt í dag.
Skíni heil í heiði
  hjartans gleðisól.
Nú er Sjöfn að seiði:
  sezt í hugarból;

Seiðir hún og seiðir
  svás á gullnum stól,
geislahárið greiðir
  gyðjan björt sem sól;

elur svanna og sveina
samhugsblíðri þrá;
glæðir geislann hreina
guða himni frá.

Glædd þeim geisla mætum
glöð og hugarfjörg,
una sigri sætum
Sveinn og Ingibjörg.
Nú í gæfu-gengi
gleði- hljómi -lag:
Brúðhjón, lifið lengi
lífs við glaðan hag.

Elskist. Indæl blikar
ástarstjarna hlý,
beiskan lífsins bikar
ber hún sætleik í,

skín í svartnótt sorga,
seiðir hrygð úr barm:
alt að bæta og borga
bölið lífs og harm.

Elskist. Ástin víkkar
andans sjónarbaug.
Skírist fold og fríkkar
fyrst í hennar laug.
Ástin ein oss borgar
alt vort reynslu-stríð,
alt sem oss fjekk sorgar —
eilíf, himinblíð.

## ÁSÝN.

(Undir nafni Sigríðar systur minnar, við fregn um andlát einkasonar hennar.)

Sem skærhvít sól rjúfi skýjatjöld
mjer skín sú ásýn um gráthljóð kvöld.
Í allri glaðværð hún á mig skín
og eilitlu hendinni veifar sín.

Mitt hjarta svarar með sárum grát:
Ó, sál mín, í guði huggast lát;
því guðs út af eigin glugga hún sjer
og glaðvær bendir til himins þjer.

Þú, elsku barn mitt, þín ásýn þráð,
svo ung og fersk mjer á hjarta skráð;

það verður senn — þegar sorgin dvín —
hjá sjálfum Jesú hún á mig skín.

---

Það alt mun bætt, sem á eftir eg sá,
og alt sem mjer duldist, skiljast þá;
því höndin litla, er mjer hrifin var frá,
mig himinsins vegu leiðir á.

## MARGAN HENDIR HORSKAN SLYS.

### Lexía fyrir lífið.

Ef hróparðu út: þíns bróður brest
og brjóst hans steinum lýstur,
en þú af syndum þá sjert frí,
ef þú hann grýtir fyrstur.
Margt skín á hauðri glerhús glæst
í geislabrotum hreinum;
en skatnar, sem þau skipa hús,
ei skyldu kasta steinum.

Ef þarfara ei neitt þú getur gjört,
en grýta steinum frá þjer,
þá býst eg við, að bezt sje þjer,
að byrja heima hjá þjer.

Eða' átt þú nokkurn einkarjett,
af æðri hendi þeginn,
að dæma um þíns bróður brest,
unz brot hans rjett eru vegin.

Ef hefirðu' honum óbeit á,
þá ætla eg nærhæft vonum
þú getir — svo er veröld víð —
ef vilt, þig sneitt hjá honum.
En margan hendir horskan slys.
Ja, hver veit? Máske alla.
Og hver veit nema, herra minn,
þú hafir fleiri galla?

Já, þú, sem einatt sjálfur sveikst,
um syndir dæmir manna,
sem fyrir guði veizt þú veikst
af vegi lífsins sanna.

Já, þú, sem aldrei inn á við
til eigin skygnist synda,
en gjammar hæst og hlammar stærst
með hleypidóma blinda.

—

Eg held þú ættir eitthvert sinn
að eigin hyggja meinum,
þá mætti ske þíns bróður brjóst
þú berðir ei með steinum.
Já, snú þú augum inn á við
með ásetningi hreinum,
að bjarga sjálfs þíns lasta lest,
en ljósta hann ei steinum.

## HILLINGAR Á SAHARA.

Fagurtyrnd og fannhvít skín
fyrirheitna borgin mín
handan vötnin blóðlit, breið, —
beina pálmar minni leið.

Þarna' að síðstu, sagði eg þá,
sjá eg takmark lífsins má.
Þarna' er andans hugþreyð höfn·
handan þessa blóðgu dröfn.

Ógnir mjer ei aftrað fá
endimörkum þeim að ná.

Engin tálman, engin neyð,
ótal pálmar vísa leið.

Skeiðið þreytt til enda er —
eyðimörkin sama hjer
glóðheit, skrælþurr, skjóllaus, ber;
skefur sand í augu mjer.

## EINYRKINN.

Eg sötra vatn og borða brauð
og bið fyrir þeim, sem á mikinn auð;
og finn að það fallegt er.
Þótt krásir hann eti og kneifi bjór,
og kviðurinn sje á honum stór,
eg ei til hans öfund ber.

Á gullkerru fer hann geist um fold;
við göngu-prik staulast eg yfir mold,
og veit það er tíföld töf;
samt vona j g, þótt ei hafi það hátt
og hokinn sje og feti smátt:
eg náð honum gefi í gröf.

# ANDVAKA.

(Þetta kvæði, sem er frumort, er út af gamalli sögu, sem eg hefi engum birt og á sjálfur. — Höf.)

Hví má jeg ei sofa — sofa —
sofa unz að skýin rofa?
Svefn úr brjósti seiðir harma,
svefninn einn á friðararma.

Grúfir myrkur gusti vakið,
gnauðar ömurlega um þakið,
ljemagna hjer eg ligg á beði,
líf og sál og alt í veði.

Hví mjer er um svefninn synjað,
sje eg ei, nje fæ það skynjað. —

Hví er lífs mjer horfinn styrkur?
Hví er þetta dauðans myrkur?

Hví sjest aldrei himinn heiður?
Herra ljóss mjer víst er reiður. —
Hversu má eg þreyja, þreyja,
þegar vonir lífsins deyja?

Heljar myrkur hugann skyggja;
harmar þungt á sálu liggja — — —
grimmri nætur möru marinn —
marinn, tættur, farinn — farinn.

Sortann eigi sjer í gegnum —;
sálin vakin ótta megnum.
Gustur nætur gluggann lemur,
gestur einn, er til mín kemur — —

Sólveig þreyð! Ó, sál míns anda!
Sveif hún burt með dag til stranda?
Svo er víst, því síðan eigi
sál mín hefir fagnað degi.

Lífið alt hún geislum glæddi,
gramar nornir burt hún hræddi,
hrein sem stigin upp úr ægi
Áróra að morgunlagi.

Kæmi hún nú í krafti sínum,
krypi o'n að beði mínum;
ljeti á mig augun skína,
endurfæddi hún sálu mína.

Hún á sína hvítu arma,
hjarta tendrað ástarvarma — — —

En eg þrái að sofna — sofna
sorgum frá unz skýin rofna.

Hvort mun bráðum birta í glugga,
bruna ljóssör gegnum skugga,
ársól þráð úr ægi rísa
og í þessi myrkur lýsa?

Steinhljóð. En sem út til stranda
unnar kvein við nakta granda
heyri' eg regnslög gustmædd gnauða,
gráti líkt í myrkrum dauða.

## GAMALT BRJEF.

(Brot.)

Það er lúið — ljótt að sjá,
  leitt hvað það er möli bitið.
Ást og sorg og æskuþrá
altaf samt mjer vekur hjá
    litla rotna ritið —
    rifið alt og slitið.

Margt hjer fingra merki stár,
  margoft hef eg á það litið.
Margoft líka um æfiár
á það brennheit felt hef tár —
    litla rauna ritið —
    rifið alt og slitið.

## STAKA.

Nú mjer ornar enginn korn;
  ýlhugs þorna lindir.
Út í hornið ill og forn
  æ mjer nornin hrindir.

## VIÐ.

Á hverjum stað við eigum bú og bæ
und blíðsól lífs, þótt kaldan stundum viðri.
Hvað hirðum við um heimsins frost og snæ?
Ef hlið við hlið við njótum samlífs æ,
þá búum við í okkar Eden miðri
og æðrumst lítt, þótt kaldan stundum viðri.

Þótt verða kunni brestur efnum á,
mun okkur freyða nautn úr lífsins bikar.
Við hyljum reynslu-merkin brend á brá
und blómsveig hjartans vermireiti frá;
þá verður sætt hvert sorgartár, er blikar,
og sælunautn hver dropi í lífsins bikar.

Með dagsbrún hverri Ást sem Æska fríð
í endurnýjung ljómar björt og fögur;
við hirðum ei um horfna æfitíð,
við hugsum fram í tímann ár og síð,
~~sem flytur okkur kvæði og segir sögur:~~
í sólskinsdýrð skín okkur lífsbraut fögur.

Við reisum okkur himin heimi í,
því hans við þörfnumst nú sem eilíflega;
og virði sorga þekkjum við, og því
skal braut hver verða okkur blessun ný.
Á sólskinshæðum lífsins, laus við trega,
við lifum tvö í kærleik eilíflega.

## ÁST MÍN.

Við skulum unnast endalaust
og auka jarðabætur.
En svo þegar kemur hinzta haust,
og heljar dynur úti raust,
þá skulum við, ást mín, aldrei fara á fætur.

## MIG DREYMDI.

Mig dreymdi svo sætan þá sumarnótt
í sólbjarmans gullrökkur næði.
Mig dreymdi svo hugljúft, en hrökk upp svo skjótt
við heimlandsins mófugla kvæði.

Mjer þótti að þú syngir mjer söngva þá nótt,
og sjerhverjum ljett væri krossi.
Mjer þótti að, að þjer eg hvíslaði hljótt:
"Ó, hjartað mitt, syng mjer þá nótt eftir nótt
hjá lífstunda fallandi fossi."
Þú hallaðist að mjer og hvíslaðir, "já".
Þig, hjarta míns alt, eg faðmaði þá
og brennandi kysti þig kossi.

Mig dreymdi svo sætan þá sumarnótt
í sólbjarmans gullrökkur næði.
Mig dreymdi svo hugljúft, en hökk upp svo skjótt;
sjá, horfin þá varstu, mín lífsvona gnótt, ..
nje heyrðust þau hugljúfu kvæði.

## EI STJARNAN HUG MINN HEILLAR.

Ei stjarnan hug minn heillar,
þótt hennar tindri rún;
um kvöld þín brásól blíða
mjer bjartar skín en hún.

Og ei fær rós í runna,
þótt rauð sje, alt mitt hrós,
því kinn þín, elskan unga,
á yndislegri rós.

Nú sinni' eg ei um söngfugl,
þótt syngi' hann dægur löng.

Mig allan vekur ást þín
og æska fegri söng.

---

Nú kýs eg ei að una
hjá engla björtum her;
í unun æsku þinnar
þú engill lífs ert mjer.

## LINDIN.

Ein flóir lind hjá lífs míns stig,
svo ljúf og hrein og sæt;
hjá henni oft eg sit og syng
og sorgir gleymast læt;
því álög beisk hún af mjer þvær
og illra norna rún;
og engin lind svo sætt und sól
mjer svalar eins og hún.

Ei sjatnar hún er sólin hlær
í sumars blárri hæð,
og engin vetrarheift fær heft
svo heita kærleiks æð.

Sem góðrar sálar gæzkudjúp,
er girnist blessa alt,
með degi hverjum dýpkar hún,
já, dýpkar þúsundfalt.

Þú spyr mig, hvar hjá lífs míns leið
sú lindin flói tær,
hvar sje hið fagra furðuland,
er farveg henni ljær.
Kom, hjartans ljúfa lífið mitt,
og lít í barm þjer inn
sem eg í djúpu augun þín,
og upptök hennar finn.

## SVONA LÍÐUR LÍFIÐ ALT.

Svona líður lífið alt
 í löngum óráðs draumi;
stundum heitt og stundum kalt;
stundum ekki heitt, en valt
 skip sjest fletja fyrir stormi og straumi.

## VESTURFÖR.

Kom hjartans ljúfasta lífið mitt,
og leiðumst vestur á Kyrðarströnd.
Þar vaggar gnoðinni víðis blær,
og veðrið er indælt, seglin þönd.

Lengst út við kvöldroðans himneskt haf
hillir eyju með fjöllin gull,
er kóngur sævarins kyssir æ,
og kneyfir ástfanginn hennar full.

Haltú í skautið, hjartað mitt,
hinsvegar eg við stjórnvöl sezt.

Óskanna land er eyja sú,
þín ættjörð og mín, sem þarna sjest.

Þar gjörir ei neitt þó að gangi út
gömlu klukkunnar stundatal;
þar yngjumst við í eilífð fram —
í æskunnar fagra sólskins dal.

## Í FROSTI.

Sign þú nú syndarann,
sólblíð og líknandi!
Kærleiks að kynda rann
kom þú nú síknandi.

Dapur — já, deyjandi,
drúpandi, þreyjandi
(ekki á hann eyri[r])
fleygir hann feginn sjer
í faðminn þeim megin, er
hjartað hann heyrir;
það slær svo þungt og djúpt,
þó er það ungt og ljúft;
dygðríkt það dreyrir

heilt lífið handan um.
— Hjer nær hann andanum.

---

Allslausan, uggandi,
ástblíð og huggandi!
  hress við hinn hrjáða.
Opna' honum armana,
eyð 'onum harmana:
  bjóð honum báða.

## JA, NÚ HEF EG VERIÐ AÐ VINNA.

Ja, nú hef eg verið að vinna,
til verðlauna sjálfsagt það metst.
Sko, drotningin draumanna minna
í dýrð sinni hjá mjer setst.

Hún leggur hönd mjer í hendi,
af hendingu sízt það er;
því auga' 'ennar sigur mjer sendi,
eg sá það er brosti' hún að mjer.

Hún spyr mig: "Hvað varstu að vinna,
þú virðist svo drjúgur af því?"
"Ó, drotningu draumanna minna,
sem dvelur nú faðmi mjer í."

## STÖKUR.

a.

Verða mun svo víst í bráð:
  eg velt á öldum kífsins;
eg á heldur engin ráð
  á andartökum lífsins.

b.

Úti finst mjer altaf kalt,
  inni lítil blíða.
þrengingarnar þúsundfalt
  þvers og langs mjer ríða.

C.

Þungstreym veltast yfir mig ár —
einhverskonar jökul ár;
áhrif þeirra öll eg kenni,
ár þótt milli gljúfra renni.

## UM STÚLKU.

Hún er krúsuð og klipt,
er þó kvenfegurð svift;
hún er gráblá og gljáir sem hvelja.
Hún er mögur og mjó,
elsk að mannfólki þó —
beygð af girndum, sem kúga' 'ana' og kvelja.

## FJÖLMÖRG ER KIRKJUNNAR KREDDA.

Fjölmörg er kirkjunnar kredda
og kenning um líf og hel.
En alt það sem við á og — vantar
í veröld, er — bræðraþel.

## ANGURSKÝ.

Angurský og undaskúr
altaf gnýja um hugarbrúr;
það er í mjer lúi og lúr,
langar því að festa dúr.

## STAKA.

Mitt er hjarta brigðum beitt,
bifað sorg úr máta.
Enginn held eg elski heitt,
sem ekki lærði að gráta.

## GUNA.

Þegar heimi fer eg frá,
frí við hinztu stunu
á sálarnótur syng eg þá
söngva um hana Gunu.

## HVORKI HEIL NJE HÁLF.

Þú varst aldrei heil nje hálf,
hafðir margt að segja um mig,
að þjer tókst svo aplakálf,
sem ekki er líft, þótt sjúgi þig.

Líkur Níðhögg nautshaus sá
nagar, sýgur lífs þíns rót;
því ert þú nú guggin, grá,
gleðisnauð og orðin ljót.

## MANNKÆRLEIKSMAÐURINN.

Ef náungann sjer hann í nauðum staddan, —
svo nakinn og svangan, sem enginn ljet gladdan,
hann fer o'n í vasann — hann verður svo frá sjer —
og vatninu snýtir úr nösunum á sjer.

## SÁMUR OG SKRÁMUR.

Sámur flúði það sómabú,
er sáir Rússans þyrnum;
en Skrámur heykist og skýtur nú
í skjálginn þjófslegum glyrnum.

Því bændur vita nú verðleik hans;
þeir vita, að hann í þá lýgur;
þeir vita, hann er svívirða lýðs og lands,
sem leikur þá grátt og sýgur.

Og líklegt er, að það komist í kring,
því kjaftinn hefir 'ann víðan,
að Skrámur garmurinn skundi á þing,
og skörungar bænda hýði 'ann.

## LANDNEMA RÍM.

(Ort áður en eg vissi a, b, c, í bragfræði. — Höf.)

### I.

### Landneminn í borginni.

Mjer — líki borgin? Langt frá, kæri,
líkur engar til þess, ber.
Eg neita því, að nokkur læri
norrænn, sem hjer kominn er,
að venjast heimsku æsings-argi,
ys og þys eð hryssings rok,
því alt er á fleygiferð með gargi
sem fjandinn rífi sig o'n í kok.
Já, alt á ferð með æðisgangi:
augljós vottur lífsins hjer,
rjett eins og fólksins himinn hangi
á heljarþröm, svo lætur það sjer.

Mjer líki' hún? Nei, mig langar aðra
landsins parta koma á.
Við frumskóga'nna fögru jaðra'
eg fá vil hendi guðs að sjá.

Hjer er ei, maður, margt að hreppa:
múrgrjót bara og vegglím grátt,
sem augans sjón svo inni kreppa,
að ei sjer koma í hvolfið blátt.
Og varla' trje nje hýrleg huggar
huga' manns á grundu rós,
en bygginganna breiðir skuggar
byrgja úti dagsins ljós,
og fuglana', er um hafið hafa
hingað leitað, fram hjá ber.
Þeir fælast orgið alls án vafa'
er innan múra glymur hjer.
Mjer líki' hún? Nei, mig langar aðra
landsins parta koma á.

Við frumskóganna fögru jaðra'
eg fá vil hendi guðs að sjá.

Og eimreið þrungin glæðum gusar
grenjandi ofar húsum hjer,
og ramsiðaðir rustikusar
í rennuna vilja bola þjer.
Org og vagnskrölt eyrun kvelja;
allar götur færðu að sjá
"kúská" lemja, bölva, belja
sem böðla komna víti frá.
En mest af öllu Bryce*) þjer blöskrar,
burðast hann um stræti hjer,
með Jóhannsson, sem ærður öskrar,
umsnúning**) að gjöra úr þjer.

---

*) Dr. Bryce, prestur í öldungakirkjunni í Winnipeg, sendi Jónas Jóhannsson af örkinni, að fara að kristna okkur Íslendinga. Furðaði margan á slíku, en mest þó á fruntaskap og fordæmingar-lestri Jónasar.

**) Jónas hafði iðulega það orðatiltæki: "að umvenda þjer" Betri íslenzka **að umsnúa þjer.** — Höf.

Mjer líki' hún? Nei, mig langar aðra
landsins parta koma á.
Við frumskóganna fögru jaðra'
eg fá vil hendi guðs að sjá.

Á erviði er hjer engin burða,
enda sjer þú lotinn háls.
Þú mátt neyta þreks og burða;
en þú mátt aldrei vera frjáls,
því verkgefandans blót þjer blöskrar,
blóðið vill hann dæla úr þjer;
en Júðinn arnnefjaður öskrar,
eyri hvern að tæla úr þjer.
Flestir samt um frelsi skrafa:
fæstir vita hvað það er;
en kynleg merki, af kvöl sem stafa'
á krúnum flestra les eg hjer.
Mjer líki' hún? Nei, mig langar aðra
landsins parta koma á.

Við frumskóganna fögru jaðra'
eg fá vil hendi guðs að sjá.

Eg heimarjett minn heldur nýti
en hýrast oddborgurum hjá.
Með næstu lest eg fer í flýti,
að flytja bygðir landsins á.
Því landið vil eg lengstum yrkja;
líf er þar og frelsi nóg,
og þar er líka lífsins kirkja,
löngu reist í fornum skóg.
Ei lofsverðara lífs um daga
leit eg mínum vegum á
en bóndans snotru hús og haga
heimalandi sínu á.
Mjer líki' hún? Nei, mig langar aðra
landsins parta koma á.
Við frumskóganna fögru jaðra'
eg fá vil hendi guðs að sjá.

## II.

### Í frumskógunum.

Eg sagði er eg sá þig, kæri,
 seinast þarna í borginni,
að eignast jörð mitt áform væri,
 og af mjer varpa sorginni.

Til landnámsferða í hasti höstu
 hreif mig lestin burt frá þjer,
og ljetti ei fyrr' en fagrir blöstu
 frumskógarnir gagnvart mjer.

Og út í skóginn ör og glaður,
 allur vakinn lífsins þrá,
nú leit eg hóf sem landnámsmaður —
 landsins festu vildi ná.

Því landið geymir lífsins kjarna,
  landið treystir krafta manns;
eg vildi líka að börn og barna
  börn mín fengi að njóta hans.

Eg leitað hefi síðan sveittur,
  samt þó ekki numið land,
og enda stundum orðið þreyttur;
  ei þó liðið vonastrand.

En takmörkuð er lífi lýða
  leiðin greið um þennan heim;
og örðugt fyrir einn að stríða
  úti' í frumskóganna geim.

Og frumskógana finn eg eigi
  fullnægjandi minni þrá.

Þrautin er: það vantar vegi
  og vaskleik til að högva þá.

En þó býr fólk í þessum skógum
  þaulspakt, frjálst og engu háð,
við akra sína úti í flóum,
  sem aldrei hafa framrás náð.

Og þetta fólk, sem býr á "blettum",
  blóðríkt, kynsælt, fornt í sál,
er eins og sprottið út úr klettum —
  undrast, skelfist tímans mál.

Það mollast lífs í millibili
  milli sults og arðlauss strits;
sjaldan vermist sál þess yli:
  sýnist vera fætt til slits. —

— Þeir helztu ætl' að — fara' — að fara' —
að fara' — að reformera heim;
en undur smeykur er eg bara,
að það lognist fram af þeim.

En skógar þessir skugga ljótum
skjóta fólksins býlum að —
sem frumherjar með feikna spjótum
fylki sjer í kringum það,

og "blettinn" snauða, þyrnum þakta,
þar sem engin lífsbjörg grær —
þeir ægilegum verði vakta,
vegum lífs að bægja fjær.

Nei, inni skal hjer eigi brælast:
út í vestrið þeysist eg.

Um það skulu þeir aldrei hælast;
  að eg geti ei rutt mjer veg.

---

Vestur, vestur leiðir legg eg,
  lífið á þar stærri mynd.
Vestur, vestur veginn hegg eg,
  við það mína framtíð bind.

## FRUMBÚA LJÓÐ.

(Flútt á kvenfjelags skemtisamkomu í Víðinessbygð í Nýja Íslandi, þá er tuttugu ár voru liðin frá því er landnám hófst á vesturströnd Winnipegvatns.)

Þjer, heiðruðu konur, mjer kvatt hafið hljóðs,
svo kveð eg þá nýrímað ljóðið,
og strenginna mína jeg stilli svo hátt,
að streymir til höfuðsins blóðið.

Í æðunum lífið og fjörið eg finn
til framsóknar hugann knýja,
því bjarma sje jeg af bjartari tíð
sig breiða' yfir Ísland nýja.

En dauft var lífið, það drottinn veit,
og dimm og eyðileg ströndin,

er frumbúarnir á fyrstu tíð
hjer fóru að nema löndin.

Þá fanst hjer engin framrjett hönd,
er farmóða lýðnum dygði,
en eyðilegt skóga ægivald
á útlenda hópinn skygði.

Og heljarbylurinn brast á hvass;
úr Bólunni fólkið hrundi.
Og hungur, dauði, og allskyns ógn
á útlendingunum dundi.

Við bágindi, drepsótt og blóðugan skort
var bygðin þannig hafin;
en hörmung sú er nú horfin öll —
í haugum fortíðar grafin.

Í þagnarhaldi og þúngafærð
hún þó hefir eyðing varist
um tuttugu ár; og þess tákn sjást og,
að trúlega var hjer barist.

Því frumbúinn sá og fann það brátt,
að framsókn er tímans krafa.
Það leynist ei heldur, að lífsrót hans er
í landinu um sig að grafa.

Hann veit, að jörðin sín fríð og feit
þau frjómögn í skauti hefur:
sje ræktun gjörð af ráði og dáð,
hún ríka uppskeru gefur.

Nú frumverði þessa furðulands
hann fýsist yfir að stíga.

"Eg skelfist ei," se'ir hann, "það skuggavald.
það skal fyrir öx minni hníga."

---

Hann veit að margt er hjer óunnið enn
og að ekki má svobúið vera.
Með fögnuði' hann sjer, að með framrás má
úr flóunum akra gera.

Þó herjar á starfsemd hans ókind ein,
sem óheilla trúþrasi stýrir
og legst sem martröð á mannskap hans
og metnaðargeð hans rýrir.

Hvort heldurðu þá ekki, höldur minn, bezt,
að hætta að jagast um trúna?
Fyrir mitt leyti álít eg alveg eins þarft,
að yrkja sjer blett fyrir kúna.

Með trúmála erjum þú uppber ei neitt,
sem eykur þjer gagnsemd að ráði.
Legg stund á að manna manninn í þjer,
~~þá meina jeg drottinn þig náði.~~

Eg segi þetta við sjálfan mig oft,
því segi' eg það nú við þig líka.
Og fallistu' á það, frumbúi sæll,
þá framtíð eignast þú ríka.

Svo hættu við trúþras og hald þjer að því,
að herja á skóginn og flóann,
að höggva og skera og hasla þjer völl,
því hug og dug áttu nógan.

Að stríðinu loknu þú akra þjer átt:
að öndvegishöld muntu gerður,
og frumbúans gervi þú fleygir af þjer,
því fylkis þú jafnoki verður.

## KRISTJÁN SIGVALDASON,

### póstur á Íslendingabraut.

Á kónglegum vagni hann, Kristján, fer
og knáleg er ferð hans um storð,
og ætíð á tilteknum tíma hann er
að taka þig með "um borð".
Þú, vin, segist "ætla" svo fá þjer þá far,
sem frískar upp sálu manns,
því þægindi og hlýindi hlýturðu þar
og hlæjandi sambúð við stúlkurnar
á kónglegu kerrunni hans.

Svo komdu þá, vinur, með Kristjáni næst,
það kynni að auka þjer móð,
því för hans er bæði fjörug og glæst,
og fjörgun þarf seinstreymt blóð;

og eigirðu' að búa við andrúms þröng
og annan drepandi skort,
þá skemt þjer með Stjána við skáldskap og
söng,
og skínandi er hjarnið sem brautin er löng.
Sjá frumskóga víðlendið vort.

Þótt sje hann á norðan og kófi það kalt,
hann Kristján gugnar ei hót.
Hann syngur í veðrið og annast um alt
þótt aðrir kveifi sjer mót;
en þá ertu inni við blíðlæti um borð
hjá brosandi silkirein.
Hann truttar á hrossin með örvandi orð
og er þá svo geisileg ferð hans um storð
sem eimfáks á ísarntein.

Sje heiðskírt veður, sem oftast það er,
er indælt um skógargöng,

því lófthreinn er andinn í liminu hjer,
sem ljóðar þjer frumskóga söng;
og frumskóga ljóð eru fögur og sterk:
þau falla þjer hugljúf í skaut;
þau hljóma um landnemans ljómandi verk,
það lífsstarfið göfga og hvað sagan hans
merk
má fræg verða á framtíðarbraut.

Á þriðjudagskvöldin með gunnreiðar-gný
í guðveiga svellandi móð,
með Heimskringlu og Lögberg og heims-
málin ný,
hann heimsækir Gimli=þjóð.
Þar bíður "hann nafni" á brunandi rás,
að bjóða þjer hressing og yl,
og glatt er á hjalla á Gimli House,
þótt gjallandi sá marki vitinu bás,
en hvern grefilinn gjörir það til.

En hvað það er skrítið, og samt er það satt,
ef sorganna rofna svo ský,
að dagstund með Stjána þú getur þig glatt,
þá græðirðu langmest á því,
að hvílast að kvöldi, en til þess þarf tóm,
og tóms þjer og hvíldar eg ann;
svo tak á þig náðir á Travellers Home,
þar tigna jeg líka þau indælu blóm,
sem krýna það kyrláta rann.

Svo komdu þá, vinur, með Kristjáni næst,
það kynni að auka þjer móð,
því för hans er bæði fjörug og glæst,
og fjörgun þarf seinstreymt blóð. — —
Eg minnist þess nú, þá er seinast eg sá,
hve svipleg var för þess manns;
það hoppaði og dansaði í huga mjer þá;
hve hugsýkis þyngslunum ljetta má
á kónglegu kerrunni hans.

## MINNI NÝJA ÍSLANDS.

(Flutt að Gimli 2. ágúst 1915.)

Vor móðurbygð, í skjóli þinna skóga,
er skini lífs og þroska fagnar nú;
þitt gnægtaborð með engi og akra frjóa
við auðlind vatnsins góða tengir þú.
Þinn frumvöxt gafst þú oss, er áttum
vjer ekkert nema taug úr slitnum Frónlífs
þáttum.

Er harmjel bitur að oss sáran surfu,
og sólginn úlfur fyrir dyrum stóð,
og bræður vorir burtu frá oss hurfu,
og bjargráð heftu drepsótt, eldar, flóð,

þinn. móðurarmur að oss vafðist.
og einskis nema rjett þú mannskaps af oss
krafðist.

Þótt dveldist oss, að þrótti vjer ei þrutum,
nje þótti krafan síngjörn vera um of;
og þar kom að: vjer þyrnigarðinn brutum,
og það varð prófsteinn gildis vors og lof,
því numin varstu nú og unnin,
vor Nýja Íslands bygð, og — dagur lífs þjer
runninn.

Lítt sæmir manni stát og stærilæti,
en styrking hugar verða mun oss þrátt,
að vita' að. bygð vor, þá í sæmdar sæti
við systra þinna hlið þjer tylla mátt.
En orð mun þinnar æskutignar
með æðstum fara veg, er kostum þeirra
hnignar.

Vor erfðataug úr þjóðlífs þeli spunnin
gaf þrótt að vinna skógatröllin ill;
nú manndáð slíkri morgunsól er runnin,
vor móðurbygð, það sjái hver sem vill.
Og taug sú var, en atvik eigi,
er oss til sigurs bar með þig á framavegi.

— — — — — —

Guð blessi strönd með akurrein og rjóður
með rósajöðrum garði bónda hjá.
Guð blessi sveit með grænskóganna gróður,
er geymir auðs, er framtíð notast má.
Guð blessi "Fljótið" skógum skygða
í skjóli tryggu þess og hjarta eigin bygða.

## ÞÚ BAÐST UM VÍSU.

Þú baðst um vísu, vina kær,
en vísu er þraut að skrifa,
er anda vorn svo angrið slær,
að oss finst þungt að lifa,
því böls og harma fellur fönn,
er firrir líf mitt gróða;
nú vefst mjer líka tunga um tönn
er til þín vildi eg ljóða.

Þó sje jeg hversu sætt þú skín,
og sól er þjer í hjarta,
það inna þessi augu þín
með ylgeislana bjarta,
þín ljúfu orð, er líkjast óð,
sem lúa hjartans eyðir,

þitt kæra bros, þín kinnin rjóð,
þinn kraftur, er mig seiðir.

Eg sje hve fas þitt ástríkt er
með yndishreina blæinn,
svo sigurdrjúgt að saman-ber
við sólríkasta daginn;
það sannar að þú sál átt til,
er sannir kostir skreyta —
þitt ljóshreint fas með andans yl
og æskufjörið heita.

Eg sje hve leiftrin leika sjer
í ljúfri ásýnd þinni
við hugsjón hverja fram sem fer
þjer frjáls og glöð í sinni;
og insta lífs þíns andar þrá
mót ylsól vonarinnar.
Ó, segðu, hver mun sigri ná
í sólheim æsku þinnar.

## SKRIFAÐ Í ALBÚM

ungfrú Herdísar, dóttur Matth. Jochumssonar skálds.

Herjadísin glöð og góð,
  sumardýrð í sálu ber hún
  sætast kvæði lífsins er hún
Herjadísin glöð og góð, —
yrkja bað mig um sig ljóð;
  angrar mig sú bónin vönd.
Hversu má eg ljóða ljóð um
  ljóðsins blíðu lönd?

## TÝNDI SONURINN.

Stúlkurnar kátar og kvikar
komu með dýrlegt vín;
hann hellir því ei, en hikar,
því hugsi tekur hann bikar
hið fyrsta sinn til sín.

"Þú hikar sem böls þjer baki,
ef bikar tæmir þann.
Við hyggjum sízt þig saki."
Og sveinninn kneyf, en að baki
svínstíu fúla fann.

## AUMINGJA STJANA.

Aumingja Stjana,
aumka jeg hana,
að eiga' 'ann svo veilan og vælinn.
Alvaldur kæri,
átt' ekki snæri,
að hengja helvítis þrælinn?

## Í MYRKRI.

Hann mætti henni á myrkum stað
og mælti': "Ert þú það, elskan mín?"
"Ekki er nú svo, að það sje það,
það er bara konan þín."

## AF ÖLLU HJARTA.

Af öllu hjarta óska' eg við þig skilja,
það ætti að vera samkvæmt beggja vilja.
Nú hjarta þitt eg þjer heim aftur sendi,
ef þú í staðinn lætur mitt af hendi.

## ÚTI Í LUNDI.

Svo heillandi kvöldfugla kliður
 í kyrðinni ómaði' um lund.
Við sauma þar sezt hafði 'ún niður;
 eg sveif að með vindil í mund.
Eg enn man þá drós þar með dúka
 er deginum halla fer út,
og varir sjer þjúfar upp ljúka
 í logheitum, blóðrauðum stút.

Og kveðjandi kvöldgeisla flóðið,
 er kraup það í lokkana' á snót,
lauzt hita í hug mjer og blóðið
 með hvirflandi, svimandi rót;

og ástríður höfðu svo hylt mig.
er horfði' 'ún upp gletninni með,
að eg gat ekki, gat ekki stilt mig,
eg gaf henni koss bak við trjeð.

Oft gremst mjer, hve grómið eitt heftir
oss gleðinnar sólblíðust hnoss;
en aldregi man 'eg samt eftir,
að ynni jeg sætari koss.
Þótt á mjer eg ögn væri bráður,
hún umbar það: varð ekki byrst.
Mig furðar ef ei hefði áður
um aftan sú mær verið kyst.

## ORÐABELGURINN.

Eitt er sem eg óft til fann:
ekkert guð vill segja
gegnum opinn orðbelg þann,
sem aldrei lærði að þegja.

## EG ÆTLA AÐ VINNA ALT MEÐ HÆGÐ.

Eg ætla að vinna alt með hægð,
ekkert minna en guði þægð;
aldrei sinna eigin frægð,
eða að brynna girnda nægð.

## SKRIFAÐ Í ALBÚM.

Engan gimstein á eg til,
ei hef slíkt að bjóða;
hjarta míns því eigðu yl,
yngismærin góða.

## HEIMILISÁSTÆÐUR MÍNAR.

(Gamanstef. — Brot úr bréfi.)

Heimilislífsins er helzta böl;
hörgull á efnum, gnægt af kvöl.

Umhverfis húsið er órudd braut,
alt vex þar, blóm og þyrnar, í graut.

Húsið er eins og allflest hús
amerísk, fult af veggjalús.

Eins er nú vatnið ei sem bezt —
að eins það, sem í jarðveginn sezt.

Og læknirinn segir það sje ei holt
um sumartímann, er það er volgt.

Og sagt er eg stundum sjáist þar,
sem þeir á ensku nefna "bar".

En til þess liggja þau atvik ein,
að engin fæst hjer svölun hrein.

— — — — — — — — — — —
— — — — — — — — — — —
— — — — — — — — — — —

Í fyrra reit eg hjer fáein stef
og fjörug: þau áttu að verða brjef

En — sjá! það skeði: mín sálar unn
í sumarhitunum varð svo grunn,

að ekki vætlaði yfir stein;
og út í skinnið stóð hvert mitt bein.

Eg hætta mátti við hálfgjörn verk,
því hugsunin varð þá ei nógu sterk.

## SKIPAFLOTINN MINN.

Ef skip mín öll um öldugeim
í einum flota sigldu heim. —
Ó, hvílík undur! — Eg held þá
að yrði höfnin næsta smá,
ef skip mín öll um öldugeim
í einum flota sigldu heim.

—

Ef hálfan flotann heimti' eg minn
um haf með dýrstan varning sinn,
svo mikinn auð eg ætti þá,
að öfund vekti kóngum hjá,
ef hálfan flotann heimti' eg minn
um haf með dýrstan varning sinn.

Ef að eins kæmi heil í höfn
hún hjartans "Þrá" mín yfir dröfn,
eg aldrei hirti um ægis dyn;
því ef í sjóinn færu hin,
eg nyti lífsins samt við seim,
ef sigldi "Þráin" til mín heim.

Ef sökkva skyldi hún í haf,
en hin með tölu komast af
með ofurfermi auðs og seims
og allri vegsemd þessa heims.
Ó, vei, hve armur yrði eg þá!
ef ein í hafi týndist "Þrá".

Ó, skín í heiði, himinsól,
á hafi mínum skipastól!
Ó, líðið, vindar, ljett og hægt,
að leiðið megi verða þægt!

En ef í hafi ólga hefst,
og Ægir kóngur fórnar krefst,
þá skip mín öll um öldugeim
hann eigi — bara ef "Þrá" kemst heim.

## MÁLMNEMINN.

Veggur fjalls með feikna dyn
fyrir mínum hamri hryn.
Niður vegu eg brýzt alla
unz eg heyri málminn gjalla.

Inst í fjallsins eyðinótt
öll mig seiðir kostagnótt:
demants urð og eðalsteinar
innan um gullsins rauðu greinar.

Eilífs friðar auðn og kyrð
er í djúpi fjallsins bygð.

Brautir huldra raka rýf eg.
Römmum hamri bergið klýf eg.

~~Undi eg gleði æskumanns~~
undir stjörnum himna ranns,
ljek á vorsins blómstig bjarta,
barnsins frið eg átti í hjarta.

En í þeirri gljúfra gjá
gleði dagsins vjek mjer frá.
Gleymdi í dimmri hamrahöllu
hlíðarinnar söngum snjöllu.

Hugði' eg, er hjer inn eg brauzt,
alveg hreint og fölskvalaust:
Andar djúpsins lið sitt ljá mjer,
lífsins gátu ráðið fá mjer.

Engin vættur enn sjest, nje
anzar mjer, þótt skrítið sje.
Geisli runninn enn er eigi,
er frá botni lýsa megi.

---

Skjátlast mjer? Hvort skal ei hjer
skýlaus úrlausn veitast mjer?
Leiti jeg um loftsins bauga
ljósið blindar þá mitt auga.

Nei, í djúpið, djúpið eg!
djúpsins kyrð er eilífleg.
Brjóttu; hamar, bergið sundur,
birt mjer lífsins dulin undur!

Höggin dynji hörð og tíð
hvern dag lífsins, ár og síð.
Enginn geisli árdags brennur,
engin vonarsól upp rennur.

## VESTIGIA — EÐA SPORIN.

Að leita guðs mjer löngun brann
einn leyfisdag og fann ei hann.
En sem um myrka mörk mig bar,
á milli kletta lilja þar
brann rauð, og — hans eg fótspor fann.

Í einum svip, mjer óvænt þá,
úr auðn eg heyrði, er dýpra lá, —
er þröstur úti' í eyðifirð
söng einn í helgri rökkurkyrð —
rödd guðs um loftið líða hjá.

Er undrun fjekk mjer, hversu hjer
sinn himin guð oss opna fer,

eg fann í blæ, sem bærði vart
hjá bekknum espilaufsins skart,
hans hönd strauk blitt um höfuð mjer.

Um kvöldið er eg heimför hóf
og heilann um mín námspor gróf
og dulmál óskýrð anda manns —
jeg eygði ljóma af skikkju hans
í dýrð, er síðblik sólar óf.

Er heim kom, tók mig hugsun ný:
eg hlutdeild mætti eiga í því,
að Fegurð verði frelsun þjóð,
og fann við hita af andans glóð,
að guð var sjálfs mín sálu í.

## VÖGGUVÍSUR.

Kossi kvöldsins bezta
  kyss mig, ást mín, heitt;
bezt er blund að festa
  barni, sem er þreytt.
Legg augun aftur nú
svo, ást mín, sofnir þú.

Spjekopp þinn hinn þýða
  þægt eg brosa lít;
en, mín elskan blíða,
  eg þig svæfa hlýt.
Drúp, auga, bjartri brá,
  því barn mitt sofna má.

Ekkert svart skal saka
sálu barns í nótt;
alvalds englar vaka
yfir beði hljótt.
Drúp, auga, bjartri brá,
svo barn mitt sofi þá.

# DRAUMUR KONU PÍLATÚSAR.

En er hann sat á dómstólnum, sendi kona hans til hans og ljet segja: Eig þú ekkert við þenna rjettláta mann; því að margt hefi eg þolað í dag hans vegna í draumi.

Þegar Pílatus nú sjer, að hann kemur engu til leiðar, en að uppnámið varð aðeins meira, tók hann vatn, þvoði hendur sínar í augsýn mannfjöldans og mælti: Sýkn er eg af blóði þessa rjettláta manns, þjer verðið að sjá fyrir því. (Matth. 27: 19, 24)

Þú dreyrrúnpessa þjer af höndum þvegið
aldrei fær,
hún allra vatna ógrar stærð, sem eiga loft
og sær.
Hans blóð mun heims um aldir allar aldrei
mást af þjer —
fyrr mun af himni stormsjó stríðum stjarna
þvegin hver.
Þú hyggur alt það höfuðóra, er hann fer
með, og draum,

að hann sje að eins fánýtt fis á flónskrar
tíðar straum.
Nei, prestum svellur heift, því honum hylli
fólksins skín:
Hann vo er fyrir guðshúss gátt og geig-
leg veizlu sýn.

Skal laumráð þessa Hannas hyskis hella
nöpru sjer
með heiftar-vofum allra alda yfir höfuð
þjer?
Hví orðum, maður, eyðir þú við ægan
prestafans?
Þeir hafa löngu hugsað sjer að hremma líf
þess manns.
Þú segir Róm sje róstusöm og reiði gylfa
ljót,
en hilmir vor hjá honum er sem hafmjöll
bjargi mót.

Sjer beð kýs þyrna sá er synjar sannleik
þessa manns;
hann leitar brauðs með sand til sáðs, en sær
er plógland hans.

Ó, lát hann frá þjer, lýs hann sýknan, leys
af böndum hann;
sjá augans vald, þá ægi-þögn, sem engin
takmörk fann.
Það meira en jarðnesk ásýnd er, og — eins
er þessi stund:
hún örlög ber í brumi, er þrútnar brátt til
laufs á grund.
Margt dapurlegt í dag eg hefi draumi þol-
að í,
um þennan mann hins þrönga stigs, er þýð-
ir dulmál ný.

Á Hauskúpunnar hveli grýttu' hann hanga
á krossi eg sá,
og lagðan svo í gröf und gæzlu er glóðu
stjarnblys smá.

Eg sá hann risinn árdag einn í öndvert sól-
arroð;
hann skein sem Appollon sjálfur sæll, vort
silfrinboga goð.
Þá blæju tímans svifta sundur sá eg draums-
ins vind:
Um heiminn streymdi' hans ást og óx sem
elfur vex frá lind;
já, saga hans barst óðfleyg út, var undur
á hvers manns vör;
nú gekk hinn hrjáði Galilei um grund á
nýrri för.

Við jörðu sá eg Jerúsalem jafna gunnlog reið,
og verða að grárri grýtisauðn á grimmra skapa leið.

Eg hvolfrís þessi og hrykamúra hrynja að grunni sá,
en feikn og undur urpu skuggum illspár himni frá.
Í skýjum sýndist rekka reið sem risa-Kerúbdrótt
með sverð og eld á svaðilför um svarta heljar nótt.
Þá reið að gnýr með eldi og usla, æptu spámenn þá,
en mæður fast sjer börðu á brjóst hjá barna sinna ná.

Þá sá eg báls í stólpa standa hinn stóra
helgidóm;
og Jerúsalem — nakið nafn var næst og —
aska tóm.

Um dulmög þenna og drottin jarðar dundu
heimsins stríð,
en sjöstjörurnar sungu' yfir alda svartri
orrahríð.
Svo hrundi Róm, en rödd mjer hló frá rúst-
um hennar: sjá,
nú hóf sig veldi, er herrastóla heimsins
skók sem strá.
En nafn þitt heyrði' eg ár og öld sem orðtak
napurt, svall:
"Hann píslir leið und Pílatus", sem plága
í hlust mjer gall.

—

Að öllu gleymd er ýmsra sök, en aldrei
fyrnist þín,
og ýmsir hljóta að lokum líkn, en — líkn
þér engin skín.

# FUGLINN Á GREIN.

Fuglinn á grein.
Hvar sem hann fleygur fer, frjálst á hann
leiksvið sjer,
ljóðar í lundi dátt, líður um heiðið blátt.
Ástljóðin yndishrein einn syngur, laus við
mein,
fuglinn á grein.



Brandan í bekk
unir við ölduspil, iðandi' í silfurhyl;
bakkar þó bekkinn við brönd unni marka
svið.
Frelsisins óðul ein einn byggir, laus við mein,
fuglinn á grein.

Yrmlingur smár
mjúkri í mosalaut mettast við jarðarskaut,
býr þó við stríð og stjá, strita í dufti má.
Frelsisins óðul ein einn byggir, laus við mein,
fuglinn á grein.

Maðurinn skýr,
heill sem þó hrósa má hátt yfir fuglinn smá,
hugtrega harðan ber, harmar og barmar sjer.
Ástljóð kann enginn hrein eins og hann,
laus við mein,
fuglinn á grein.

Gætir sín ei:
varhygðar allrar án eltir hann heimsins lán;
tárast með hjarta hrygt, hefir á sandi bygt.
Gleðinnar óðul ein einn byggir, laus við mein,
fuglinn á grein.

Vegfari sæll!
Fuglinn með fjörga lund, flögrandi vítt um grund,
syngur í sölum-blá sólarljóð vængjum á.
Kærleikans kvæði hrein kenni þjer, laus við mein,
fuglinn á grein.

## GLEYM MJER EI.

Býður af sjer blíðu varma,
blikar dalsins lindum hjá
sárgljúpt orpið silfurbjarma
sætast blóm, er heimur á.

Blátt sem himins heiðið tærast;
hvergi þegar skýdíll sjest,
trygða jarteikn trúast, skærast,
tungu hjartans innir bezt.

Þegar skilnaðs tárið titrar
títt og höfugt þjer um brár,

það við stíginn grátblítt glitrar —
gleym mjer ei, þess bæn er sár.

Blátt sem ljós þíns auga er það —
og sem hjartans vonafley
yfir höf og hauður ber það
hugðar-orðin: Gleym mjer ei.

Ástrík hjörtu heyra' hið þýða
hljóðskraf þess — í vorsins þey,
heyra tárvætt blómið blíða
biðja sáran: Gleym mjer ei.

## HAUSTVÍSUR.

Nú sumarlaufin svífa
um svæðið bleikt og kalt,
já, eins og dauða-drífa
í duftið hrynur alt.

Hve sönglaust sveitum yfir
og sorghljóð skóga göng!
en elskan ljúfust lifir,
þótt linni fuglasöng.

Og aftur árstíð nýja
oss elskan veitir frjó,

og aftur hljóminn hlýja,
sem hjeðan burtu dó.

Svo kveðju hjartans hýrri
vjer heilsum vetri þá;
því hans und skikkju skírri
sjer skýla frækorn smá.

## REGNDAGURINN.

Hve kalt nú er og dimt og dapurt!
og dynjandi regn svo æst og napurt.
  Sig bergfljettan vefur að veggsins mold,
  en visnuð laufin drífa á fold,
og umhorfs alt svo dimt og dapurt.

Mitt líf er kalt og dimt og dapurt;
það dynur regn svo æst og napurt;
  með hjartað á moldum þess umliðna' eg er,
  en æskuvonirnar deyja frá mjer
hrönnum, og lífið er dimt og dapurt.

Haf hljótt, mín sál, þótt sorgir þjaki,
því sólin ljómar að skýjabaki
og allir menn regndag eiga sinn,
og allir menn skylt við harminn þinn,
og sjálfsagt, að stundum sje dimt og dapurt.

## HAUST HIÐ INNRA.

Haustar — þó hið ytra ei,
innra er það, að fölvinn helzt.
Vakir lífs í vörmum þey
vor og æska: jeg hef elzt.

Leikur fugl um loftið svalt,
ljóðar dátt um hreiðrið sitt.
Lífsins njóta nú má alt,
nema veslings hjarta mitt,

dapurt æ og dýrðarlaust —
detta laufin bleik á slóð;
engin þresking þetta haust,
— þýtur ekkert kvarnarhljóð.

## GAKK ÞIG.

(Með hliðsjón af kvæði eftir Tennyson, en breytt.)

Komdu' ekki þegar loks eg liðinn er,
  að lauga kuml mitt heimskum tárum þínum,
að troða og sparka torfið o'n á mjer
  og trufla frið, svo þægan beinum mínum;
lát vindinn gnauða um barðið grátt og kjurt,
    en gakk þig burt.

Hvort það var ljettúð eða guðlaus glæpur,
  mig gildir jafnt, mitt líf er sundurmarið.
Æ, framhjá! Gift þig! Tíminn er þjer tæpur;
  þín trygðrof sár fær Herrann naumast varið.
Eg þrái hvíld, en fáráð, fláráð þú —
    æ, framhjá nú!

## SYSTURNAR.

Við tvær vorum systur af sömu rót:
í sjón bar hún fegurra yndismót —
  Það þýtur í trjám og turnum há.
Þau fylgdust að, og hún fjell, svo ung:
fram því knúði mig hefndin þung.
  Ó, fríður var jarlinn sýnum sá!

Hún dó. Var fjötruð og fleygt á glóð:
hún flekkaði sinnar ættar blóð.
  Það gnauðar í trjám og turnum há.
Eg sat um það, að sigra hans ást,
en svo leið tíminn, að það brázt.
  Ó, fríður var jarlinn sýnum sá!

Af virktum gjörði jeg veizlu þeim:
eg vann hans ást, eg teygði hann heim.
Það grenjar í trjám og turnum há.
Og eftir kvöldverð, á beði blítt
við brjóst mín lagði hann sitt höfuð frítt.
Ó, fríður var jarlinn sýnum sá!

Eg kysti hans hvarma höfgum frið:
hann hvíldi örugt brjóst mín við.
Það dunar í trjám og turnum há.
Eg til hans hatur helvízkt bar,
en hjartans kær mjer hans fegurð var;
því fríður var jarlinn sýnum sá!

Í hljóðleik nætur eg hóf mig á stjá,
eg hvössum og skygðum daggarð brá.
Það bylur í trjám og turnum há.

Og þá var svefnbundið þrek hans og megn,
og þrisvar sinnum eg rak hann í gegn.
Ó, fríður var jarlinn sýnum sá!

Eg greiddi hans lokka, eg lukti hans brá,
lík hans var stórmannlegt að sjá.
Það þýtur í trjám og turnum há —.
Eg vafði það líni, að venju lands,
eg varp því að fótum móður hans.
Ó, fríður var jarlinn sýnum sá!

## DULDAR ÁSTIR.

Á bekknum hann brúnygldur hjekk,
hún broshýr að dansleiknum gekk;
ljek alsoddi á
við einn, tvo og þrjá; —
sem sverðseggjar sálu hans skar það,
en einskis á vitorði var það.

Það kvöld bak við hlöðuna hljótt
hún hljóp, þá er kvaddi hann drótt.
Hún falla sig ljet,
hún grjet og hún grjet,
því gleðina' úr lífi' hennar bar það.
En einskis á vitorði var það.

---

Í átthagann aftur hann sveif,
því eirðarlaus þungsinna' 'ann hreif.
— Nú átti hún gott:
var alfarin brott;
ljet hugtökin hinztu hann varðað.
En einskis á vitorði var það.

## NYKURINN.

Eg hlýddi á nykursins söngvaseið
hjá suðandi krystallslindum,
og kyrðin drotnaði djúpsett, þreyð,
og dagur leið, og dagur leið,
og skuggarnir teygðust frá tindum.

Eg heyrði' 'ann grjet meðan glóði rein
í geislanna hinztu flaugum;
og bládöggin skalf svo himinhrein
á hverri grein, á hverri grein
hjá kvöldskygðum krystallslaugum.

Frá hörpunni' 'ans blíðróma leið svo ljóð
um lágstemdar tónaraðir:

"Sof heil! Nú draumálfar, rós mín rjóð
um rjóðrin hljóð, um rjóðrin hljóð
að sæng þinni sveipast glaðir.

---

Svo ylsæt, fögur og skær þú skín,
en skynjar ei hvað mjer geymist.
Við straumfallið, sorgin mýkist mín,
en myndin þín, en myndin þín
mjer aldrei, mjer aldrei gleymist."

# ÖRIN OG LJÓÐIÐ.

Í loft upp eitt sinn ör eg skaut,
og ekkert vissi jeg hvert hún þaut,
svo geist og hátt hún flaug mjer frá,
að festa mátti ei sjónir á.

Í vindinn ljóð af vör mjer hraut,
ég vissi ei neitt um hvert það þaut;
því fám mun sjón svo gefin góð,
að geti flug sitt þreytt við ljóð.

Eg síðar löngu sá í eik,
hvar sárbeitt örin mín stóð keik,
og ljóðið orðrjett hef eg heimt:
í hjarta vinar fann það geymt.

## "HOME THEY BROUGHT HIM SLAIN WITH SPEARS."

Brandi veginn báru þeir
buðlung heim við sólarlag.
Hún í sessi harmprúð þreyr —
heyrir glymja næsta dag
salinn anda inni.

Sól und glugga seildist tjöld,
sveininn ljek og engu kveið,
föður síns hann fleini reið,
föður síns hann drap á skjöld:
"Sorg og svala minni."

## BALDURSBRÁ.

Í sprungu veggjar bjart og bert,
mitt blóm, þig les eg glaður,
— með rótum hjer eg held á þjer,
mitt hvítast blóm, en skildist mjer,
hvað alt með rót þú ert,
þá vissi eg gjör hvað væri guð og maður.

## ENOK ARDEN.

Strandraðir langra kletta klýfur gjögur;
í gjögri því er frauð við fölan sand;
við bryggju gegnt er þyrping rauðra þaka;
þá hrörleg kirkja; hærra langur stígur
klífur að mylnu, er mænir hátt; en þak við
ber gráa og sendna heiðarbrún við himin
og hauga Dana; dafnar heslirunnur
í skálmyndaðri skrúðlaut heiðarinnar,
og bleður margur hnetur þar á haustin.

Fyr hundrað árum hjer í þessu gjögri
þrjú börn frá þremur húsum, Anna Lee,
smámeyja þorpsins fríðust, Filip Ray
son mylnumannsins ríka, og Enok Arden,

munaðarlaus og ófágaður angi,
son fiskimanns, er hafði í vetrarveðrum
einhverju sinni brotið fley og farist —
sjer ljeku innan um fjörurusl og rekald,
ryðorpnar festar, kaðla, dumbrauð dráttnet
og róðrarbáta ráðið þar til hlunns.
Úr lausum sandi bjuggu þau sjer borgir
og horfðu á brimið þvo þær aftur út,
eða eltu fram og flýðu holskeflurnar
og ljetu dag hvern lítil fótspor eftir,
sem líka dag hvern aldan nam á brott.

Í gljúfravegginn hellisskúti skarst;
þar ljetust börnin búa. Hafði Enok
þá annan daginn forráð, Filip hinn,
en hússins frú var Anna æ hin sama;
samt vildi til, að vildi Enok skipa
húsbónda sessinn heila viku í senn:
“Því jeg á húsið; hún er konan mín.”

"Mín kona líka," greip þá Filip fram í,
"og skiftumst á og búum báðir jafnt."
Er slóst í hart, og Enok orkumeiri
hjelt velli, fyltust augun bláu Filips
af táraflóði ráðalausrar reiði.
"Eg hata þig," kvað óp hans við til Enoks;
grjet þá af samharm litla konan líka . . . .
og bað þá deila ekki um sig, og sagði,
hún vildi vera litla brúðin beggja.

Að morgni liðnum bernsku rauðra rósa,
er sunna lífs í hádagshæðir svifin
með nýjum varma vakti beggja hjörtu,
þá feldu báðir ástarhug til hennar,
og tjáði Enok henni allan vilja,
en Filip ól í hjarta þrá og þagði;
samt virtist mærin þýðast Filip fremur,
en unni hinum þótt hún það ei vissi,
og hefði aðspurð óðar slíku neitað.

Nú varð það Enoks fasta mark og mið,
að draga saman, spara í und og æð,
og eignast bát og bústað handa Önnu;
svo loks með þetta áform fyrir augum,
eí fangasælli garp til sjóar gat,
nje varfærnari ef í krappan komst
und brimi sorfnum björgum þeirrar strandar
en Enok. Auk þess hafði 'ann verið
með varningsskipi ár í utanferðum,
fullnaðarskil á farmannsprófi gjört,
og mannslíf hafði 'ann þrisvar sinnum sótt
í voðagreipar hvítfyssandi hranna,
og var af öllum mikils virtur maður,
og hafði um tvítugt eignast bát og bústað,
og Önnu búið einkar snoturt hreiður
á hálfri leið upp mylnustíginn mjóa.

Svo bar til gullinn aftan einn um haust,
að yngra fólkið hafði tóm sjer tekið,

og farið hver sem vetling valdið gat
með tínupoka og töskur — alt á hnotskóg
Dvaldist þá Filip (faðir hans lá sjúkur)
og komst ei fyrr' en stundu seinna af stað;
en er hann kleif í hálfan heiðarbrattann,
rjett þar sem kjarrið fer að kögra barminn
á Hesliskál, hann Enok sá og Önnu,
sitjandi saman tvö með tengdar hendur,
hans stóru, gráu augu og útitekna
andlitið lýst upp hægum, helgum loga,
er brann sem hóglátt, heilagt fórnarbál;
það Filip sá og dapran dóm sinn las
í augum þeirra og yfirbragði; en — þá
er sá hann vera lagða kinn við kinn,
hann stundi við og hrökk sem helsært dýr
í skóginn þar sem skálin dýpst var fyrir
og duldist meðan glaðværð hinna gall:
þá myrku stund; svo stóð hann upp og fór—
með brigði vona, beisk og hungrað hjarta.

Svo giftust þau og klukknahljóðið klingdi
glaðlega við, og árin liðu liðugt,
sjö sældar ár við hagstæð kjör og heilsu,
við samnautn ásta, heill og heiðurs starfsemd
og gleði barna: mær var fyrst þeim fædd.
Er fyrsta barn hans fyrsta sinni grjet,
hann löngun þeirri allur vakinn varð,
að hafa sparnað, aukast svo að efnum,
að barn hans fengi betra lífsuppeldi
en verið hafði hans og móður þess.
Tveim árum síðar sama þrá hann vakti,
er sveinbarn kom í viðbót til að verða
í einverunni engill móður sinnar,
er Enok barst um reiðisollna rán,
eða upp til lands hann fór, því sannast sagt,
þá kendu margir kláinn hvíta hans Enoks
og sæföng hans í sælyktandi vandlaup,
hans andlit og, sem ekki aðeins var
með snarprauð bitmörk þúsund vetrarveðra

hjá krossi torgsins alþekt, heldur einnig
á laufstigunum hinumegin heiðar,
alt þangað er þú ýtrjeð þenjast sjer
sem páfuglsstjel, og portljóns hvolpinn standa
sem vörð við hlið hins kyrra höfuðbóls,
sem Enoks fanga neytti frjádag hvern.

En þá varð breyting. Alt er hverfleik háð
í heimi þessum. Þremur röstum norðar
en gjögurhöfnin þrönga opnast önnur
og meiri hafnstöð; þangað átti Enok
þrásinnis ferð á láði eða legi.
Er eitt sinn hann var aðkomandi þar,
og kleif í reiða á kugg, sem lá í höfn,
hann illu heilli misti fóta og fjell
og var með fótlegg brotinn færður brott;
en er hann lá og bata síns þar beið
ól Anna honum annan son, er var
vanheill frá fæðing; annar iðn hans hremdi

og svifti hana og börnin brauði þeirra.
Þótt guðelskandi og stiltur vel hann væri,
nú er hann lá og hafðist eigi að,
herjaði á hann efasýki og sorg.
Sem möru troðinn marga nótt hann þóttist
sjá börn sín veslast upp í vesaldómi
hafandi hvorki í sig eða á —
og hana, er unni' 'ann, lenda á vonarvöl;
þá bað hann: "Guð minn, frelsa þau frá þessu,
hvað sem á bak mjer koma kann og í skerst."
Í sama bili og baðst hann fyrir, kom
skipstjóri sá, er Enok áður hafði
verið í för með — hafði heyrt um slysið;
hann þekti manninn vel og virti hann,
kvaðst skip sitt vera að búa á brott til Kína,
hann þyrfti farmvörð: frá ef Enok vildi
í för—þá slást og ráðast í það rúm.
Til stefnu voru vikur margar enn,
og þaðan skyldi skipið láta í haf.
Með gleði þektist Enok óðar' boðið;
hann sá í þessu' að svarað bæn hans var.

Sá skuggi sorgar þyngri vart því virtist
en eins og þá er yfir höfði manns
hádegissólar-logaskeiðið sker
skýhnoðri smár, en sólskinseyjar sjást
á sjónrönd úti brydda hafsins brún.
En konan — börnin — er hann brott var
farinn —
hvað mundi þeim til líknar leggjast þá?
Og Enok lá og lengi heilann gróf —
að selja bátinn: kostafarið kærsta:
í honum hafði' hann margoft boðið byrgin
bálvondum ægi — þekti hann eins vel og
riddarinn eigin reiðhest þekkir sinn,
og — samt að láta' hann — verja verði hans
til vörukaupa — láta Önnu verzla
með alt, sem lyti að útveg fiskimanna —
svo þyrfti' hún einskis þá í bú að biðja
í fjarvist hans. En, hví þó ekki sjálfur
mangað þar eystra? Aftur siglt til Kína?
Jú, tvisvar, þrisvar — oftar ef hann vildi —

svo loksins komið fjáður heim úr förum —
keypt farkost meiri og miklu arðvænlegri —
lifað í ró og mentað blessuð börnin,
og alla daga búið sæll hjá sínum.

Staðrjeð hann með sjer þannig alt og ákvað
fór síðan heim og hitti Önnu föla,
með ungabarnið óhraustlegt á skauti.
Með feginsópi hljóp hún móti honum
og lagði sjúkan svein í arma hans;
fór Enok höndum um hans litlu limi
og mat til þyngdar, þrýsti að föðurhjarta,
en hafði ei þrek til þess að inna Önnu
sitt áform ráðið fyrr' en næsta morgun.

Frá því er hringur Enoks gullin-góður
spent hafði fingur Önnu, öndverð nú
hið fyrsta sinn hún hóf sig honum gegn;

ekki með vonzku tók hún þessu þvert,
heldur með mörgum, blíðum bænarorðum,
tárvotum augum, angurbitnum kessum,
marg-endurteknum; nótt sem nýtan dag
(viss um að alt ilt af því mundi stafa)
grátbændi hún hann, ef ynni hann sér enn
og börnunum hans, að bregða ætlan þeirri.
Hann, sem var ei að hugsa um sig, en hana,
einungis hana og börnin hennar, ljet
bæn hennar synjað, hjelt sitt strik sem hetja
með sorg í hjarta, en sannan viljaþrótt.

Fyrir því skildist Enok við sinn væna
sjóvin, og keypti vörur að og vistaföng
Önnu til handa; bjóst svo til að búa
stofuna litlu, sem að stígnum vissi,
með borð og hillur vörufanga og vista.
Svo daglangt þar til hinzta daginn heima
skalf húsið fyrir öx og hamri Enoks;

fanst Önnu þá sem verið væri að smíða
líkkistu sína, er heyrði hún höggin dynja,
en hann var að unz hafði' hann verki lokið
og fengið öllu rúms í rými þröngu
og raðað því með slíkri natni og nýtni,
að líktist nostri náttúrunnar sjálfrar,
er fræögn sína eða blóm hún býr;
hans hugsun sú, að hlúa' að Önnu æ
til hinztu stundar: hætti starfi og gekk
til sængur lúinn; svaf svo höfugt af
nóttina, alt til næsta morguns, árla.

Og morgun þenna, er för vàr heiman heitið,
með hugardirfð og gleði Enok leit
og hló að efni hræðslu Önnu sinnar,
nema' að því leyti, er henni harms það fjekk;
en engu síður beygði' hann sig í bæn,
að hætti göfugs guðelskandi manns,
og sökti sjer í djúp þess leyndardóms,

þar guð í manni er samjafn manni í guði,
og bað um blessun yfir konu og ungbörn,
hvað sem á bak sjer koma kynni, og mælti:
"Með guðs hjálp, Anna, gefst sú för oss vel;
hún opna mun oss sólskaut sælla dags.
Geym hússins vel; lát eld í skírleik skarta
á fáðum arni og vaka vegna mín.
Er minst þig varir, kem eg, ást mín, aftur."
Tók svo með hægð að vagga vöggu
barnsins —
— "og hann svo fríður, smágjör, mjór og
magur,
því sárar einmitt tekur mig nú til hans,
Guð blessi hann; á knje mjer set eg sveininn
og segi honum margt frá fjarrum löndum:
já, skemt skal honum þá er eg kem aftur!
Hress þig, mín Anna, áður brott eg býst."

Er heyrði' hún hversu örugg von hans var,
lá við, að snortin von hún einnig yrði;
en er hann sveigði að alvarlegra efni,
að sjómans hætti prjállaust prjedikandi
um forsjón guðs og trausta trú á hann,
hún heyrði, heyrði, en heyrði þó ei neitt,
sem bóndastúlkan, er með fötu fer
og setur undir bunu í bæjarlæknum,
fer ósjálfrátt að hugsa svo um sveininn,
sem vanur var að fylla fötu hennar,
heyrir og heyrir, heyrir þó ei neitt,
og lætur flóa yfir fötubarminn.

Loks mælti hún: "Ó, vitur ert þú, Enok;
en þrátt fyrir það, fer eg þó ei þess duld,
að aldrei þig eg augum framar sje."

"Gott og vel," kvað hann, "þá skal eg sjá
þig. — —

Hjer siglir um það far, er fer eg með,
(nefndi þann dag) fá sjóngler sjómanns ljeð;
kom auga á mig og hlæ að hræðslu þinni."

Nú er hið hinzta augnablik af öllum
þeim hinztu kom, vjek Enok sjer að Önnu:
"Heyr, ást mín, kom, ver hress og huggast
lát;
gæt hús og barna unz eg aftur kem.
Nú hlýt eg kveðja, en kvíddu ei vegna mín;
en kvíðir þú, þá flý með þína sorg
í umsjá guðs; það akker' hrífur við.
Er hann ei þar í löndum fjarstu firðar?
Á yztu sviðum sólaruppkomunnar?
Mundi' eg úr augsýn hans þá flúið fá,
ef færi eg þangað? Hann á hafið: hafið
er hans; hann skóp það."

Stóð þá Enok upp,
og sterkum örmum vafði brúði, er bifðist,
og börnin tvö, sem horfðu á með undrun,
kysti hann svo; en sveininn, þann hinn litla,
er vanheill var, og svaf nú sætan eftir
svefnlausrar nætur harða hitasótt,—
hún bjóst að hefja á arm, en Enok sagði:
"Vek þú hann eigi; lát hann næðis njóta;
hvað mundi sveinninn muna slíkt?" og
kysti' hann
í vöggu sinni. Kom þá Anna og klipti
sárlítinn lokk af sveinsins enni og gaf
Enok, sem geymdi alt til dauðadags.
Svo greip hann mal sinn, veifði og var á
brott.

Er dagur sá, sem Enok ákvað, kom,
hún sjóngler fjekk, og þó til einskis yrði;
ef til vill kunni hún tök ei á því rjett,

að stilla glerið; eða gat það verið
að táramóða tæki fyrir sýn?
eða skylfi höndin? Enok sá hún ekki;
og meðan er þar á þiljum uppi hann veifði,
fór augnablikið óðfleygt hjá, og — skipið.

---

Hún starði á seglið er það blikhvítt bar
til hafs unz hvarf það, gekk svo grátin heim;
en þrátt fyrir það, að grjet hún hann sem
    grafinn,
þá engu síður lagði hún hrygga lund við,
að leita samhljóms vilja síns við hans.
En verzlun hennar þreifst ei, því hún kunni
á kaupamangi miður skil, og skorti
kænsku til þess, að bæta úr þörf með brögð-
    um,
gat ekki logið, ekki heldur hitt,
að setja um of og síðan ganga að minnu;

var hugklökk jafnan, "hvað mundi Enok
segja?"
því nokkrum sinnum neyðst hafði' hún til
þess,
er örðugleikar surfu sárast að,
~~að láta vörur lægra verði en keyptar~~
að efnin þurru, það hún sá og hrygðist;
beið þreyðra frjetta þeirra, er aldrei komu;
hjelt húsi sínu við af skornum skamti,
og lifði lífi hljóðláts hugarþunga.

Nú, þriðja barnið frá þess fæðing krankt,
varð veiklulegra, æ þótt allrar nyti
það umönnunar aðhjúkrandi móður;
en hvort það var, að annir hana heimtu
oftlega frá því, eða þá að henni
var ávant þess, er ómissandi var því,
ellegar fátækt bægði henni að borga
þeim ráðgefanda, er þarfir barnsins þekti —

hversu það var, dró af því hægt og hægt,
og fyrri en varði flaug í burtu litla,
saklausa sálin, eins og fanginn fugl.
er sleppur og á svipstund svifinn er.

---

Þá sömu viku er greftrun þess var gjör,
komst trúfast hjarta Filips við, er framast
óskaði' að geta harma hennar mýkt;
það stakk hann nú sem ör að hafa aldrei
síðan er Enok sigldi heimsótt hana.
"Sannlega nú ég sæki hana heim."
sagði hann, "það mætti henni huggun
verða."
Svo þangað heim hann greiddi stig, og gekk í
stofuna auðu, sem að stígnum vissi,
nam staðar lítt við dyr þar innar frá,
drap þrjú högg á, en þá er ei var anzað,
opnaði hann. Var Anna í sessi þar,
hljóðlát og ein með sína sorg, rétt komin

frá greftrun litla, dýra drengsins síns
og fýstist ekki framan í neinn að sjá,
en upp að vegg sig grúfði fast og grjet.
Hann staðar nam unz stamað gat hann upp:
"Eg kom hjer, Anna, að beiðast af þjer
bónar."

Í stúnum gráts svo sárum svarið leið:
"Þú, Filip, hér, að biðja bónar konu
slíka sem mig, jafn auma og yfirgefna!"
— að hálfa djörfung hans það nám, samt
meðan
er feimni og og einlæg samúð sál hans
deildu,
settist hann óspurt henni hjá og mælti:

"Eg kom að minnast þess, er þráði hann,
Enok þinn bóndi: ætíð hef eg sagt,

að valdir þú hinn vænni okkar tveggja —
afburðarmann að viljafestu og vaskleik;
því framtak hvert, er honum hugstætt var,
það gjörva hönd hann lagði á og lauk því.
En hvað dró hann til þeirrar þrautaferðar,
og láta þig hjer eina eftir? Hvort ei
til gamans sjer — að hleypa heimdragan-
um? —
Nei, til hins það var að freista að aka úr
öngum —
fá börnum sínum betra lífsuppeldis
en verið hafði ykkar: það var það.
En verði honum afturkomu auðið,
mundi það honum harms og gremju fá,
að sjá þær dýru morgunstundir mistar.
Það fengi jafnvel glapið grafværð hans,
að vita börn sín ana eins og tryppi
taumlaus og vilt um heiðar. Heyr mig,
Anna, —
hvort höfum við ei alla æfi þekzt?

Eg særi þig við þína ást til Enoks,
og barna hans, að segja nú ei nei;
því viljir þú, er Enok kemur aftur,—
hann borgar mjer það — ef þú segir svo,
en eg er ríkur — vel við efni, Anna.
Nú kom eg hjer, að mælast til að mega
láta í skóla litlu börnin þín."

Svaraði hún með ennið upp að veggnum:
"Eg get ei, Filip, framan í þig litið;
mjer finst eg öll svo beygð og bjálfaleg.
Mig beygði sorgin, er eg sá þig kominn;
og nú þín drenglund eins mig yfirbugar.
En Enok lifir; hugboð það eg hef:
hann borgar þjer, því gull til verðs má vega;
en ekki drenglund eins og þína."

Hann spurði:
"Samþykk því, Anna?"

Vatt hún sjer þá við,

stóð því næst upp, ljet tárvot augu tefja,
eitt augnablik á ásýnd ljúfri hans,
bað guð að blessa' hann, greip í hönd 'ans
hrærð
og þrýsti fast, svo gekk hún út í garðinn,
en Filip fór í ljettum huga heim.

Nú setti Filip börnin bæði í skóla,
og gaf þeim bækur eftir þörfum þeirra,
annaðist þau á allan hátt sem sá,
er skyldu sinnar gætir gagnvart sínum;
en Önnu vegna, af ótta fyrir þorpsins
orðasveim leiðum, neitaði hann sjer jafnan
um það, sem hjartað helzt sjer kaus, og
steig
sjaldan sem aldrei yfir þröskuld hennar;
en börnin sendi hann með gjafir heim:
dýrlegust aldin, garðávaxta-gróður,
fyrstu og hinztu rós úr heimareiti,

kanínur viltar veiddar uppi' á heiði,
og öðruhverju, eins og rjett til prófs —
svo merktist ei það væri af gustuk gjört —
úrval hins bezta mjöls frá mylnu sinni,
sem hátt í brekkum heiðarinnar þaut.

En Filip duldist framvíst auga hennu;
því naumast gat hún, hitti' hann hana að
máli,
af munni stamað stöku þakkarorði,
sem kom af því, hve þrungið hjarta hennar
af þúsundfaldri þakklátsemi var.
En börnum hennar var hann alt í öllu;
frá strætishornum fjarrum þutu þau
með feginshug, að fagna ástúð hans.
Í mylnu hans sem ranni ríktu þau;
með barnasorgum, barnakæti lúðu
þau eyru hans, en ekki' hans þolinmæði,
ljeku sjer við hann, fjellu um háls á honum

og nefndu hann Filip pabba. Filip vann
nú óðum það, sem Enok varð í tapi;
því fyrir þeirra innri sjón var Enok
sem óákveðinn draumur eða sýn
óljós sem eitthvert fjarlægt fyrirbrigði,
sem grillir til í grárri morgunskímu
við yztu gátt á auðum skógarstíg,
og eigrar burt, en — engir vita hvert . . . .
Frá því er Enok yfirgefið hafði
arin og ættjörð voru tíu ár,
og síðan aldrei neitt til Enoks spurzt.

Nú bar svo til, að ásamt fleirum fýsti
börn Önnu síðla haustdag einn á hnotskóg
og Önnu sjálfa. Æsktu börnin þess,
að Filip pabbi (þau hann nefndu það)
þá færi líka; fundu þau hann svo
alhvítan meldri uppi' í mylnu sinni
sem bý að starfi í blómsturdusti, og sögðu:

"Ó, komdu líka, kæri Filip pabbi!"
Aftók hann það í fyrstu, en er þau fastar
að honum lögðu, uppgafst hann og hló.
Hvort var þar ekki Anna í för? — —

Þau fóru.
En er þau höfðu hálfan brattann klifið,
rjett þar sem kjarrið fer að kögra barminn
á Hesliskál, dró allan mátt úr Önnu;
hún stundi við: "Mig langar hvílast lítt."
Ljet Filip sjer það líka vel, og varð
hjá henni eftir, meðan unga fólkið
ruddist með ærsla-glaumi og gleðilátum —
og gjörði hvíta slóð í kjarrið niður
í skógarbotninn, þaut í allar áttir,
togaði í og braut þær grönnu greinar,
sem tregar láta æ þá kæru köngla —
kallaðist á, svo kvað við hátt og glumdi,
á stundum hjer — á stundum þar — í skógn-
um.

Þótt Filip þar við síðu hennar sæti,
gleymdi' hann með öllu návist hennar nú;
en mundi glögt þá myrku stund er skreið
hann
sem helsært dýr í skuggga þessa skógar
eitt sinn; en loksins sagði hann og hóf
hógværa ásýnd: "Anna, heyrir þú,
hve glaðværð þeirra glymur niðri í skógn-
um?
Hvort lúin, Anna?" því hún anzaði ekki.
"Hvort lúin?" en hún laut í gaupnir sjer.
Var hann sem gremju gripinn þá og sagði:
"Það skip er týnt og ekkert um það meira!
Hvort viltu gjöra alveg út af við þig,
og láta þau með öllu athvarfslaus?"
Svaraði Anna: "Hugði'g ei á það,
en hitt mjer dylst, hví einstæð öll mjer finst
eg verða nú, er glaðværð þeirra glymur."

Dró Filip sig þá Önnu nær og inti:
"Húgfólgið, Anna, hefi jeg mjer nokkuð,
og það svo lengi haft und hjartarótum,
að man eg ei er fyrst þess var eg varð;
en eitt eg veit, að út það brýzt um síð.
Örvænt er þess, og engar líkur til,
að lífs hann sje, sem ljet þig eftir hjer
fyr ömurlegum áratugi. Heyr nú:
Mig tekur sárt þig skorti efni og aðstoð,
en get ei bætt úr skák sem skyldi, nema ....
Nú, — konan sagt er hafi skilvit skörp,
þú skilur, Anna, ef til vill, hvað eg fer:
Eg fýsist þess, að fá þín mjer til konu.
Eg gjarna vildi ganga börnum þínum
í föðurstað; sem föður þau mjer unna,
ef eg skil rjett; en hitt eg veit með vissu,
að ann eg þeim sem ætti jeg þau sjálfur.
Og trú mín er, ef tekst sá ráðahagur
og föstnuð þú mjer ert sem eiginkona,
eftir þá löngu reynslu- og tregatíð,

við fáum notið slíkra gæða, er guð
veitir nokkurri skapaðri skepnu sinni.
Leið hug að þessu. Eg er vel við efni:
leik lausum hala, einn og engu bundinn
þá öðru en því, að sjá um þig og þína,
og við höfum alla æfi þekzt, og þjer
eg unnað hefi lengu ren þjer ljóst er."

Svaraði Anna angurblíðum rómi:
"Sem himins engill hefir þú oss verið.
Guð blessi þig og borgi þjer það, Filip,
með öðru miklu ágætara en mjer.
Mun nokkur geta elskað öðru sinni?
Mundi jeg geta elskað þig sem Enok?
Hvað er það, Filip, er þú af mjer beiðist?"
Svaraði hann: "Það ljeti jeg mjer lynda,
þótt ynnir þú mjer eil'tið minna en honum."
"Bíð, kæri Filip!" æpti hún óttaslegin;
"ef Enok kæmi — en Enok kemur ekki —

bíð þó eitt ár, eitt ár er ekki langt;
hyggnari sjálfsagt eftir ár eg verð.
Ó, þrey um sinn!" Til svars hann inti dap-
ur:
"Þreyð hef eg, Anna, alla mína daga,
hví skyldi eg eigi þreyja þá um sinn?"
Hún hrópaði upp: "Ó, heyrðu, eg er bundin!
Þú heitorð mitt nú hefir — eftir ár.
Þú bíður samt þitt ár sem eg bíð mitt?" —
Svaraði Filip: "Bíða mun eg mitt."

—

Þau feldu talið, sátu hljóð unz sá hann,
að aftaneldar dagsins dóu uppi
á Danahaugum yfir höfði þeim.
Náttkulið hugði hann Önnu óholt mundi,
hóf sig á kreik og kallaði o'n í skóginn.
Komu svo börnin hlaðin fríðum feng;
hurfu þau niður þá til þorpsins aftur.
Staldraði Filip lítt við húsdyr hennar,

rjetti' 'enni hönd og blíðum orðum inti:
"Heyr þú mig, Anna, þig eg tali tók
á þeirri stund er þú varst veikust fyrir,
og var það rangt, en eg er bundinn, Anna,
þjer æfilangt; þú laus ert allra mála."
"Nei, eg er bundin," anzaði Anna og grjet.

Svo mælti hún; en sem í svipan einni —
er enn hún gekk um heimasýslan sína,
og huga leiddi enn hans hinztu orð,
að lengur en vissi' hún unnað hefði 'ann
henni,
— var þetta haust að hausti aftur svifið,
og hann þar aftur, ámálgandi heitið
andspænis henni. "Árið liðið?" spurði' hún.
"Já," sagði hann, "sje heslihnotin tæk:
hygg að, þú sjálf". En hún — hún bar í
vænginn —
hefði svo annsamt — en sú breyting þó —

gefa' henni' í viðbót fárra vikna frest —
mánaðar frest — hún mundi heit sitt vel —
að eins einn mánuð — meira ekki. Filip,
með hungur hjartans æfilangt í augum,
svaraði rótt, þótt röddin skylfi af kvöl:
"Tak þú þjer frest að eigin kjöri, Anna."
Hans vegna hefði Anna getað grátið
af samúð; en hún teygði tímann samt með
afsökun margri trauðla trúanlegri,
unz hafði hún þrautreynt þolraun hans og trygð,
og — hálft var liðið annað árið hjá.

En nú kom þorpsins þvaðurhyskið lata,
í andstygð megnri útreikninga skakkra,
geisandi sem úr máta móðgað væri.
Sumt sagði að Filip væri að fleka hana;
sumt að hún beitti látalætis tregðu,
einungis til að teygja hann á sitt vald;

en aðrir gjörðu gys að þeim sem fíflum,
er vissu ei hvað þau vildu; svo kom einn
með flimskusköllum fullur hvata allrar
svívirðu, er hjengu hver við aðra í tengslum
sem bendiruna eiturnöðru eggja,
og hafði í dylgjum drjúgum verra um bæði.
Þótt sonur hennar legði lítt til málsins,
leyndi' hann því ei, hver ósk hans var og vilji;
en mærin lagði að móður sinni fast,
að ganga að því, að giftast slíkum manni,
svo einkarkærum öllum þeim, og þar með
fá vísað hússins vesaldómi á bug. — — —
Og fölva sló á Filips rjóðan vanga;
hans útlit alt bar þungra rauna rún,
og fjell það eins og sök á sálu hennar.

Loks bar svo til, að Anna eitt sinn lá
svefnlaus um nótt og heitu hjarta bað
sjer birtist tákn: "Er úti um hann — minn
Enok?"

Gat hún þá ekki — umkringd alla vega
af gluggalausum næturmyrkra múrnum —
afborið lengur ógnir hjartans þær,
sem ægðu nú og ugði hún sjer birtust.
Hún spratt á fætur, gjörði ljós og greip
sturluð af harmkvöl hina helgu bók,
lauk henni' upp fljótt að finna tákn, ef tæk-
ist,
og fingri drap á orðin: "Undir Pálma".
Til hennar tók það ekkert — engin hugsun —
ljet bókina aftur, fjell í svefn, og — sjá!
í hæðum uppi, undir pálma sá hún
sinn Enok sitja, og sólina' yfir honum.
"Ó, hann er genginn, hann er sæll, hann
syngur
lifandi guði lof í hæstri hæð,"
hugði hún, "og þarna er röðull rjettlætisins,
og pálmar þessir munu þeir, er fólkið
sneið limar af og ljet þeim stráð á meðan
er kvað við: "Dýrð sé guði í hæstri hæð!"

—

Hjer vaknaði' hún og var þá fastákveðin,
ljet sækja' hann, — sagði annarlega ör:
"Eg sje ei, hví við giftum okkur ekki."
"Fyrir sakir guðs, og sakir okkar beggja,"
svaraði hann, "ef þú mjer giftast vilt,
þá láttu sjá, að verði það nú þegar."

Svo giftust þau og klukknahljóðið klingdi,
það klingdi glatt á heiðursdegi þeirra,
en glatt sló Önnu aldrei negg í barmi.
Var æ sem heyrði' hún fóttak sjer við síðu;
hún gat ei vitað, hvað það var nje hvaðan;
fanst einhver stöðugt að sjer vera að hvísla,
hún vissi ei hverju; hjá því vildi hún komast,
að vera látin ein í húsum heima.
Um hug var henni úti að ganga einni.
Hvað var það þá, sem olli því að oft
hún hugsi tók með hönd um klinkujárnið
sem árætt vart hún gæti að ganga inn?

Grunaði Filip brátt, hvað þar til þess:
slík hræðslugirni væri kunn um konur,
er fyrir þeim var ástatt eins og henni:
hún fór með barni; en er barnið sitt
hún alið hafði, kom hin milda móðir
með nýju barni endurskírð að skipa
öndvegi hjartans. Hennar góði Filip
varð nú í öllu hugkvæmst athvarf hennar,
og huliðsfylgjan hvarf með öllu brott.

En hvar var Enok? Beggjaskauta byrjar
naut skipið, Auðnan, er það leysti úr höfn.
En sem hún kom í Spænskaflóann fram,
þá kendi af úfnum álands-sjóafjöllum,
lá við grandi þá; samt skreið hún skemda-
laust
yfir um þvert og síblítt sumar jarðar.
Loks eftir volk og veltu kringum Höfðann,
og svipleg brigði blíðra veðra og stríðra,

skilaði hún sjer með heilu og höldnu aftur
yfir um síblítt sumar jarðar; kom þá
staðvindi himins blítt og beindi henni
í ástúð framhjá gulllöndunum góðu,
unz austur þar hún lagðist heil í höfn.

Keypti þar Enok afar kynlegt margt,
er fágætt var á torgum þeirrar tíðar
og börnum sínum einnig gullinn gamm.

Miður gekk heim. Í fyrstu dag frá degi,
um marga hafsins skíra sjóndeild sást
stafnbrúðin barmhvelfd bærast vart er
mændi' hún
út yfir báru, er ýfðist fyrir brjósti;
svo gjörði logn, þá svæsna sviftivinda,
þráviðri hörð, og hrakning langa vegu.
Loks dreif þá fyrir afli ofsaveðurs
á niðamyrkri nóttu, þar til skipið
við neyðarópið "boðar" braut í spón.

Týndust menn allir nema Enok þar,
og auk hans tveir, sem helming nætur
hjengu
á brotnum rám og reiðaslitrum, unz þá
~~í dögun hrakti upp að ey, sem reis~~
í regin auðn úr reginsæ, en — frjó.

Ei skorti föng til viðurværis þar:
munntömust aldin, kókoshnot og kjarnrót;
og auk þess fanst þar rádýr margt svo ram-
vilt,
að tamt það var, því hægur vandi að höndla,
ef sannri mannúð sviðið hefði eigi,
að leggja hönd á líf svo varnarvana.
Þar uppi á brún, í gjá, sem gein mót hafi,
þeir gjörðu kofa, sem til hálfs var hellir,
og höfðu í þak hans pálmalim og lauf. — —
Svo bjóst hann fyrir, þremenningur þessi,

til setu þarna í Eden gnægta, og undi
við eilíft sumar illa sínum hlut.—

—

Einn þeirra, er drengur hart nær var, og
hafði
kostast þá illu ófarnaðar nótt,
vesladist æ og háði stríð við hel
þrjú döpur ár. Þeir fengu fæti vart
frá honum vikið. Eftir andlát hans
fundu þeir tveir, sem eftir stóðu, stofn;
tók fjelagi Enoks hugsanlaust að hola' hann
með eldi að hætti Indíána, fjell
sólbrandi lostinn. Las nú Enok einn
í beggja dauða bending drottins: "Þrey".

Alt upp á gnýpu fjallið skógi skrýtt
hann hefjast sá, og rjóður þess og rinda
liðast um brattann eins og braut til himins,

beinvaxinn kókos krónum fjaðra drúpa,
skordýr og fugla líða hjá sem leiftur,
vafjurtir langar gullinbjöllum glitra,
vefjast um stofna tigulegra trjáa
og teygja álmur alt að ægi fram
og — miðrar jarðar dýrð og geislaglóð;
sem slíkt hann sá, en það, sem helzt hann
hefði
óskað að sjá, hann aldrei litið fjekk:
mannlegrar sálar vinlegt viðurlit,
nje þreyða mannsrödd heyrt; en heyrði í
stað þess
flöktandi sæfugls-mergðar glamm og garg,
lágarða báknin drynja dimt við rifið,
vindþytinn svífa í toppi risatrjáa,
er gróðurfrjóvum greinum skotið fá
und sólarbáli í himinhvirfils firð;
ellegar gljúfra fossaföllin steypast
þjóstmikil niður fjallsins hlíð í hafið,
er ranglaði hann með sænum eða hann sat

í bjargskor sinni, er gagnvart hafi gein,
með farþrá manns, er fley sitt brotið hefir
og bíður komu skips, en dag frá degi
sjer enga sigling; aðeins þau hin sömu
eldroðnu skeyti upprennandi sólar
sundrast við bjargið, sindra um pálma og
burkni;
blossandi sól um hafið alt til austurs;
blossandi sól um eyna, yfir honum;
blossandi sól um hafsins vötn til vesturs;
svo þrúðga nótt með himin stórra stjarna
og hafsins brimgný dimmri æ og — aftur
eldroðin skeyti upprennandi sólar,
en — enga sigling.

Einatt er hann sat
á sjónarverði, eða hann þrumdi þar
svo fast, að eðlan frán og gullinglóa
tylti sjer frjáls að sóla sig á honum,

svifu þá fram og sóttu fast að honum
draumsýnir margar, eða' hann hugvæng hóf,
að seiða myndir, fólk og staði fram,
er þekti hann á þokusælli eyju,
huglægri þó, í hálfrar jarðar firð: —
Húsið og Önnu, börnin, babl ið þeirra,
mylnuna háu, brekkustiginn bratta,
höfðingjasetrið, páfugls-ýinn aldna
og laufstiguna hinumegin heiðar,
bátinn og hestinn, svala haustsins morgna,
heiðlöndin döggvum dýpri bláma brugðin,
blíðskúrir ýrðar eimi dauðra laufa, og —
blýgrárra voga lágan kendarklið.

Svo heyrði' hann eitt sinn sjer í eyrum klingja
lágt, en með lífi — óra vegu úti —
hringingu sinna eigin kirkjuklukkna;

þá vissi' 'ann ekki, hví 'ann hrökk upp
hræddur,
og þá er-eyjan aftur blasti við,
andstyggileg í allri sinni dýrð,
hefði þá ekki veslings hjarta hans
talað við þann, sem traustri nálægð sinni
lætur ei neinn, sem leitar hans, það finna,
hann sje með öllu yfirgefinn, mundi
einveran manninn eflaust hafa deytt.

Og yfir snemma silfrað höfuð hans
sóltíð og regntíð ár frá ári liðu.
Sú von, að enn sjer auðnast mundi að sjá
ástvini sína og dýra heimahaga,
var ekki dauð; er einvist illri hans
var hrundið. Annað skip, sem skorti vatn
og hrakist hafði, eins og Auðnan forðum,
afskeiðis fyrir stormum ýmis-áttar,
nú hafði lagst við eyna vilt og velkt.

Því stýrimaður skipsins skarpsýnn hafði,
í dögun snemma, sjeð í gegn'um glufu
á þokuhjúp, sem orpinn var um eyna,
dynlausan foss af flugabjargi steypast.
Var hópur manns á land upp látinn fara,
og bjóst þá hver, sem búinn stóð að finna
einhverja sytru lækjar eða lindar,
og glumdu svo, að ströndin öll tók undir.
Skreydidst þá o'n úr skoru fjallsins uppi
með hárið langt og hæruskeggi kafinn,
einbúinn trauðla menskum líkur manni,
af bruna sólar brúnn og skorpinskinna —;
og gervi búinn fáránlegra flíka,
muldrandi eitthvert óskiljanlegt þvaður
með óðafasi eins og vitfirringur,
og benti þeim: þeir vissu ei hvað hann vildi:
eins fyrir því á undan þeim hann fór
þangað, sem tærir fjallalækir fjellu;
en eftir því sem lengur leið og heyrði' hann
mennina hjala sín á milli saman,

hans lengi bundna tunga tók að losna,
unz skiljanlegan þeim sig gjört hann gat.
Þegar er fötin voru fylt þeir hurfu
af skynding fram til skips með hann, en sagan,
sem inti hann þeim með stirðum tungutökum,
þótt trauðla virtist trúanleg í fyrstu,
varð sennilegri síðan æ og vakti
samkend og undrun allra, er hana heyrðu.
Ljetu þeir honum föt og far til reiðu;
en oft með þeim hann vann og varp þá af sjer
einangursskapnum. Enginn þeirra var
kominn frá áttarhögum hans, nje vissi
nein deili á því, sem fýstist hann að frjetta. . . . .
Sú för var löng og sóttist seint, því skipið
var trauðla sjófært; sveif þá æ á undan
þeim lötu vindum óðfús hugur heim,

þar til eitt sinn er tungl í skýjum skein
sem elskhugi gegnum alt sitt blóð hann svalg
engdöggvum höfgan ilm í morgungolu.
er lagði af Englands bleikum bjargaströndum.
Skipverjar allir, æðri bæði og lægri,
intu þann morgunn framlög fús af hendi
til glaðnings þessum munarlausa manni;
svo stýrðu þeir til lands og lentu honum
í sömu höfn og lagði hann fyrrum frá.

Við engan mann þar mælti hann, en gekk
án allar tafar heim á leið — hvert heim?
Hvort átti' 'ann heima heima nú hjá sjer?—
Bjart var þann aftan: svalt en sólskin glatt;
unz upp frá gjögrum beggja þorpa bólstruð
sjólæðan valt og grátt varð umhorfs alt.
Vegarins huldist lengd og lega fjær,
rjett örmjótt svið varð sjeð til hvorrar
handar —

hagkvisti visið, holt og bleikir akrar.
Rauðbrýstingur á nær því nöktu-trje
söng angurljóð, sem ekkert bergmál fann,
en dáið vægi dauðra laufa bar þau
í gegnum úðann eins og dauðadrífu. ...
Og yrjan þjettist, svartar syrti að;
loks sá hann bregða ljósi stóru fyrir
í úrgri móðu. Hann var kominn heim.

Og hljóður niðar stíginn langa hann
læddist,
hugboði vakinn óhamingju allrar,
með festa sjón á götusteinum gráum,
unz niðurlútur loks hann þangað náði
heim, þar sem Anna undi bezt og hafði
elskað hann þau hin langa löngu horfnu
sjö sældarár, og alið börnin hans;
en þegar ekkert ljós nje lífsmark sást
(í gegnum úðann grilti í söluseðil)

rölti hann lengra stígnum ofan eftir
og hugði: "Dáin eða dáin mjer."

Og niður beint að briggju "pollsins" mjóu
gekk hann að leita gistiskála eins,
er kunnur honum var að fornu fari:
maðksmogin bjálkum samanklömbruð krá,
svo afar-forn og öll úr lagi gengin,
að líklegt var hún væri nú á brott,
en brott var sá, sem rjeð þar fyrrum fyrir.
Rak ekkjan, Miriam Lane, þar sömu sýslan,
sem gekk til rýrðar dag frá degi nú.
Fyrr höfðu sjómenn þangað þyrpzt og
svakkað,
var kyrt þar nú og gestum gisting veitt.
Þar dvaldi Enok daga marga hljóður.

Góðkvendi var hún Miriam Lane og mál-
reif,
nje ljet hann vera, rjeðst inn ræðin til hans,
sagði' honum meðal fleiri frjetta þorpsins
sem ljósast alt — því engin kensl hún bar
á Enok nú svo brúnan, boginn; farinn —
af húsi hans, um dauða drengsins litla,
um vaxandi' örbirgð Önnu, hvernig Filip
fjekk sett í skóla og sjeð um börnin hennar,
um bónorð hans og biðlund, samþykki'
hennar
seinlegt, og loks um brúðkaup þeirra og
barn;
við slíka fregn hann brá ei lit nje látum,
og ætlað mundi hver, sem gaum að gaf,
sú frásögn tæki minna á hann en hana.
Loks er hún inti: "Veslings Enok var
sokkinn í sjó og týndur," — hristi' 'ann
ákaft

höfuðið grátt og gnuddi: "sokkinn — týnd-
ur";
bljes harmsárt við og aftur umdi: —
"Týndur!"

En Enok þráði önnu sárt að sjá.
"Ef mætti' eg líta átsblítt andlit hennar
og vita að henni farnist farsællega."
Sú hugsun eirði honum ei og rak hann
að lokum hátt í hlíðarbrekkur upp
eitt kvöld er liðið langt af hausti var,
og rökkrin þyngjast drunga grárra daga.
Þar settist hann og sá yfir alt hið neðra;
þar ruddust myndir minningafna fram
margar og óumræðilega sárar.
Brátt sá hann ljós í rauðri rósemd varpa
heillandi bjarma langar leiðir út
frá efstra stafni á Filips fríðu ranni;
það dró hann að sjer líkt og varðljós vitans

vegmóðan farfugl lokkar unz hann lemst
flumúsa' í hel við harðan vitaturinn.

Því að hús Filips stóð við stíginn fram —
efsta hús þorpsins; en að baki því var
múrgarður lítill ferjór í fjögur horn,
og sneri hlið hans upp að óbygðinni
og þreifst í honum grænn og aldinn ýr.
Hringinn í kring var malargangur mjór,
og annar gangur miðjan garðinn skar;
en Enok sneiddi honum hjá og læddist
með veggnum fram og faldist bak við trjeð,
og þaðan sá hann það, sem síður skyldi,
ef annars væri í hörmum eins og hans
sárara eða sviðaminna til.

Áhöld af silfri glóðu á gljáu borði
í glöðu skini björtum arni frá.
Á hægri hlið við arninn sá hann sitja

meðbiðil sinn, hinn forðum smáða Filip,
bragðlegan vel með barnið sitt á knje,
og fögur sýnum laut þar ungmær yfir
kjörföður sinn, hin yngri Anna Lee,
glóhærð og há, með baug, sem hjekk á bandi,
og ljet hann dingla dátt að freista barnsins,
sem báðum spöðum grípa vildi gullið,
en misti þess, og þá var hlegið dátt.
En vinstra megin arnsins sá hann Önnu,
og ljet hún augum oft til barnsins hvarflað,
en annað veifið vjek á tal við son sinn,
sem stór og þrekinn stóð við síðu hennar,
og eitthvað hugþekt var það, sem hún sagði,
því glöðu brosi brá á andlit hans.

Þá er hinn dáni endur lífs nú leit
sitt eigið víf sitt víf ei meir, og barnið
hennar, en ekki hans, á föðurhnje,
þá gleði, rósemd, ást og samlífssælu,

sín eigin börn svo vöxuleg og væn,
og hinn, með virktum, sitja þar að sínum
einkarjetti og elsku barna sinna, —
þá, þrátt fyrir alt, sem Miriam áður hafði
sagt honum frá, varð sjón hjer sögu ríkri,
hann skalf sem hrísla, greip um grein og
kveið,
að misti' hann ráðið, ræki upp ofboðs hljóð,
sem stökti á svipstund arnsins ást og friði
sem duna riðin dómsins lúðri frá.

Fyrir því læddist hann sem þjófur þaðan,
að mölin eigi marraði' undir fæti,
studdist við vegginn, að hann ylti eigi
út af og fyndst yfirkominn þar,
dróst út í hliðið, lauk því upp, ljet aftur
sem dyr á sjúks manns hæli — hægt sjer
eftir,
og kom svo aftur út í óbygðina.

Þar vildi hann krjúpa, en í knjám svo
veikur
hann var, að áfram hann á andlit fjell
og fingur gróf í gljúpa jörð og bað:

"Þungbært um of! Hví tóku þeir mig
þaðan?
Alvaldi guð, þú, frelsarinn mildi minn,
sem hjelzt mjer við á eyðieynni minni,
hald mjer við enn í munaðleysi mínu,
faðir, um stund! Ó, styrk mig; hjálpa mjer
að dyljast, svo hún duld sje alls um mig.
Gef, að eg aldrei raski rósemd hennar.
En börnin mín — hvort ei þó orð við þau?
Eg — sem þau ei þekkja, sviki sjálfan mig.
Nei, aldrei: föðurkoss eg fæ engan —
og stúlkan — móðurmyndin sjálf og —
hann
drengurinn minn — —"

Hjer þraut hann mál og megin;
hann fjell í öngvit, en er upp hann stóð
og hvarf til dapra dvalarklefans aftur
endlangan mjóa mylnustíginn niður —
á hugstreng húinn hvíldarlaust hann sló,
sem viðlagsstef það væri á kunnu kvæði:
"Að dyljast, svo hún dulið sje alls um mig."

Hugganlaus var hann eigi því með öllu.
Hans áform sett, hans örugg trúarfesta
og bæn, sem upp frá lindum lífs og vilja
án afláts flóðu gegnum bölið beiskt
sem brunnar ferskra vatna í söltum sjó —
hjelt honum við og hjartað lifa ljet.
"Óttast hún ei, sú mylnumannsins kona,"
spurði hann Miriam, "er þú mintist á,
að frumver hennar haldi ef til vill lífi?"
"Jú, veslings sál, það víst hún óttast nóg,"
svaraði hún, "og segðirðu henni lát hans,

yrði' henni það hin mesta hugarhægð."
"Þegar er brott mig herrann kallað hefir,"
hugsaði' hann, "skal hún einskis duld. Eg bíð
unz stundin kemur." Enok smáði æ,
að lifa á bónbjörg, gekk til verks og vann
sem þörfin knúði. Gjörva hönd hann gat
lagt, svo að segja, á hvaða verk sem var.
Hagur á trje var hann og bezti beykir,
og róðrarmönnum reið hann net, og þá er
hin reiðamiklu kaupskip komu hlaðin
með þeirrar tíðar takmarkaðan varning,
bar hann með fleirum farm af þeim og á þau,
og firðist þannig neyð við nauman kost;
en þar sem aðeins einum sjer hann vann:
stritaði vonlaust, var það ekkert líf;
og þegar hringferð árs að nýju nam
þann dag, sem Enok aftur kom, hann kendi
vanstyrks og deyfðar lítt, sem stig af stigi
ágjörðist svo, hann unnið gat ei meir,

og bundin öll hans fótaferð var orðin
við þrönga svefns- og setuklefann hans
og stólinn, unz hann ei úr rekkju reis . . . .
Og lasleik sinn hann hýr í bragði bar;
því feginleik sá fyllist meiri vart,
sem brotið hefir skip við sker og lítur
um rof í gráan mökkvann brjótast bát
með vonir lífs í gegnum brim og boða,
að bjarga lífi, sem var örvænt um —
en Enok nú, er dagsbrún dauða síns
sjer brosa við hann sá, og endi alls.

Sú dagsbrún hlýrri geislum vonar varp
á hjarta Enoks hugsun vakið þeirri:
"Að dánum mjer þess dulin skal hún ei,
að unni' eg henni alt til hinztu stundar."
Hann kallaði hátt á Miriam Lane og mælti:
"Leyndarmál hef eg, húsfrú — aðeins sver
áður en uppskátt þjer um það eg læt.

Vinn eið að bók, að birta engum það
fyr en þú sjer mig dáinn." "Dáinn?" gall
við
húsfreyjan góða, "heyra til hans! — Maður!
~~reiddu þig á við komum þjer á kreik."~~
— "Vinn eið að bók," var Enoks gagngjört
svar,
og hálfhrædd eið að helgri bók hún vann.
Brá hann þá sínum gráu augum upp:
"Þektir þú Enok Arden hjeðan?" "Þekti'
'ann?
Eg þekti til hans," tjáði hún; "eg man
eg sá hann koma ofan eftir stígnum,
bar kollinn hátt og hirti lítt um aðra."
Svaraði Enok seint og mæðilega:
"Hans höfuð er lágt og hirðir fár þar um.
Uggir mig fast, að ei eg lifi það,
að sjá af himni sólir fenna þrjár.
Hjer sjer þú manninn." Hóf þá konan
hálfóð

hálf-vegengjandi óp: "Þjer, Arden, þjer!
nei, eflaust var hann höfði hærri en þjer."
Gegndi því Enok: "Guð minn hefir beygt
mig:
lækkað mig svona. Sorg og einvist mín
mig lamað hafa. Vit þó fyrir víst,
að eg er hann og hún mjer gift; en — nafn
það
breytt öðru sinni er. Eg giftist þeirri,
er Filip Ray sjer festi. Sezt og heyr mig."
Tjáði' hann þá henni alt um sjóferð sína,
skipbrot sitt, einvist, aftur er hann kom,
með hverjum hætti, að inn hann sá til
Önnu,
um áform sitt, og hversu' hann fram því
fylgdi.
Sem hlýddi' 'ún til, og tárin liðu í lækjum
litverpan niður vanga hennar — brann hún
friðlausri þrá að fleygjast út um þorpið
hornanna milli heyrinkunnugt gjöra

um Enok Arden, komu hans og harma;
en eiði háð og helgri lotning fylt,
hún sagt gat aðeins: "Sjáið börnin yðar
áður en lýkur! Eg skal ná þeim, Arden,"
og spratt upp áköf, óðar' þau að sækja,
því honum dvaldist augnablik við orðin,
sem inti hún, en síðan sagði hann:

"Glep mig ei, húsfrú, nú að hinztu, en leyf
mjer
mitt strik að halda unz stundin efsta kemur.
Tyll þjer; set á þig orð mín vel og skil mig
meðan er mælt eg fæ. Þjer fel eg nú
er sjer þú hana, að segja henni, að eg
á banastundu bæði fyrir henni,
blessaði hana, ynni henni eins vel
og þá er hvíldi' hún sæl við síðu mjer,
þrátt fyrir stengdan múrinn milli okkar.
Seg dóttur minni, Önnu, sem eg sá

að öllu var svo áþekk móður sinni,
að varði' eg mínum efstu andartökum
í fyrirbón og blessun yfir hana,
og syni mínum seg frá mjer, að eg
~~blessaði hann á dánardægri mínu.~~
Seg Filip og, eg bæði guð að blessa' 'ann;
hann meinti aldrei nema gott í garð vorn.
En vilji börn mín á mig líta liðinn,
er mig í lífi naumast nokkuð þektu,
þá komi þau; eg þeirra faðir er,
en hún má ei, því dáin ásýnd mín,
yrði' 'enni jafnan hugstæð hrygðarsýn. . . . .
Af blóði mínu nú er að eins einn,
sem annars heims mig örmum vefur sínum.
Sjá! — Þetta hár hún klipti af kolli hans
og gaf mjer; jeg hef geymt það öll þau ár
og hugði að bera það til moldar með mjer,
en hefir snúist hugur, því eg fæ
drenginn minn litla sælan sjeð. Tak við því,
og þá er eg er frá, þú fá það henni;

það huggun mætti henni nokkur verða,
og auk þess jarteikn um, að jeg er hann."

Hjer lauk hann máli; en Miriam hjet að
gjöra
að óskum hans, með orðasemi slíkri,
að upp hann leit og augum brá til hennar,
og hóf upp enn sín hugðarmál, og enn
hjet hún því sama.

Þriðju nóttu þar frá,
er Enok fölur falinn blundi var,
og Miriam við stokkinn, milli svefns og
vöku,
drundi við þvílík duna upp frá sjónum,
að gjörvalt litla gjögurþorpið skalf.
Hann hrökk upp, reis og örmum böndum
æpti:

"Ó, sigling! Sigling blikhvít! Mjer er borgið!"
Fjell svo á bak, og fleiri orð ei inti.

Svo skildist við sú hetjusálin hrausta.
En þorpið litla hafði, er hann var grafinn,
svo virðulega jarðför sjaldan sjeð.

## LEAD, KINDLY LIGHT.

Skín, ljósið náðar; myrkrin grúfa grimm,
ó, lýs mjer leið,
og langt er heim, en nóttin niða-dimm,
ó, lýs mjer leið;
um fjarlægð hulda hirði' eg þó ei neitt,
ef, herra, leiðir þú mig fótmál eitt.

Eg ungur var, og eigi bað, að þú
mjer lýstir leið;
eg hugðist einfær þá, en þig bið nú
mjer lýsa leið.
Ó, gleym því, hversu gálaus mjög eg var,
hve glys og dramb mig ofurliði bar.

Eg veit, sem fyrr' þú blessar lífs míns leið
og lýsir mjer,
í þrautum enn, í jökulnepju og neyð,
unz nóttin þver
og við mjer brosa engil-andlit blíð,
sem elskað hef' eg lengi', en mist um hríð.

Svo áfram þá hið þyrnum stráða skeið,
er þú gekkst fyrst,
heim, Jesús, heim sem ljúfast barn mig leið
— í ljóssins vist,
að hvílast megi' eg eftir æfiharm
í eilífs friðar ljósi guðs við barm.

## ABIDE WITH ME.

Ó, vertu hjá mjer, herra! dagur dvín;
það dimmir að; ó, lít í náð til mín!
og þegar hvergi lið nje líkn finst hjer,
þú, líkn hins mædda, vertu þá hjá mjer.

Hinn stutti dagur lífs míns líður fljótt,
og lán og vegsemd jarðar hverfur skjótt;
hjer breytist alt og þróttarvana þver;
ó, þú, sem aldrei breytist, ver hjá mjer!

Ei bið eg að eins augnabliks um sinn,
en umgakkst mig sem lærisveininn þinn

í ást og mildi', er einum heyrir þjer.
Dvel ekki' um sinn: ver, herra, æ hjá mjer.

Ó, kom þú ei sem kóngur veldis hár,
en kom með líkn á væng að græða sár.
Ó, kom og grát þú yfir eymdum hjer;
þú, ástvin syndaranna, ver hjá mjer.

Sem barn eg óx í brosi kærleiks þíns,
en brátt eg reis í þverúð hjarta míns
og hófst þjer gegn, en þú ei breyttir þjer.
Ó, þú, minn Jesús! ver þú æ hjá mjer.

Eg þarfnast mjög þú sjert í náð mjer nær.
Hver nema þú við falli hlíft mjer fær?
Hver nema þú mjer líf og leiðsól er?
Í logni' og storim, Jesú! bú hjá mjer.

Með þig við hlið mig ekkert felmtrar fár,
þinn friður skín mjer gegnum hvert mitt tár.
Sjá! dauðans kyngi svelgt í sigur er.
Eg sigra, herra! verðir þú hjá mjer.

Er kvöldar hinzt, þú, Jesú mildi minn!
mjer mitt í dauða skín með krossinn þinn.
Sjá, lýsir guðs sól, leysast myrkur hjer.
Í lífi' og dauða, herra! ver hjá mjer.

## FROM GREENLAND'S ICY MOUNTAINS.

Frá Grænlands ísgnúp yztum,
frá Indlands kóral strönd,
frá landi sunnansólar
við silfurlinda bönd,
frá fljótum frumskóganna
og fríðri pálmahlíð,
berst hróp til vor að hrífa
úr hlekkjum viltan lýð.

Þótt sólblær sætri angan
um Ceylon andi milt,
þótt leiki alt í lyndi
er líf manns syndum spilt;

ei stoðar guðs þótt gjafir
  úr gæzku djúpi sjóð,
því starblind dýrkar stokka
  og steina heiðin þjóð.

Mun oss, er orðsins njótum
  og allrar náðar, tjá
þeim synja lampa lífsins,
  er langvinn myrkur þjá?
Ó, boðum Jesúm! Boðum
  hans blessað hjálparráð,
unz fólki fjarstu landa
  hans frelsisorð er tjáð.

Þjer vindar blítt það berið
  og bárur sævargeims!
unz alt skín í þess ljóma
  til endimarka heims,

unz lambið lausnar kemur,
er leið og dó á kross,
í veldi vegs og dýrðar
til verndar frelstum oss.

## PÁSKAMORGUNN.

(Lag:—Eg í bænum á þig mæni.)

Páskamorgun mannkynssorga,
mannkynssorga þerrar tár,
lífi manna ljóssins sanna,
ljóssins sanna morguns-ár.
Páskamorgun mannkynssorga,
mannkynssorga þerrar tár.

---

Alheims-blysið árla risið,
árla risið! Myrkrið þver.
Ljóssins fjandi ljóssins brandi,
ljóssins brandi sleginn er.
Alheims-blysið árla risið!
árla risið! Myrkrið þver.

Syngja hæðir sigurkvæði,
sigurkvæði um fjörgjöf hans,
hans, er dó oss, hans, er bjó oss,
hans, er bjó oss lífsins krans.
Syngja hæðir sigurkvæði,
sigurkvæði um fjörgjöf hans.

Englaskarar ofan fara,
ofan fara gegnum ský.
Gröfin ljómar, gleði hljóma,
gleði hljóma boðin ný.
Englaskarar ofan fara,
ofan fara gegnum ský.

Brott er nauð og breytt er dauðans
breytt er dauðans ógn í líf;
gröfin ljómar guðs meðal blóma,

guðs meðal blóma í Jesú hlíf.
Brott er nauð og breytt er dauðans,
breytt er dauðans ógn í líf.

Englasæti, englakæti,
englakæti í grafar hlje!
Sætt mun bólið sett í skjól við,
sett í skjól við lífsins trje.
Englasæti, englakæti,
englakæti í grafarhlje.

Ljóssins anda logabrandi,
logabrandi í myrkrið slær;
myrkrum glapið mannkyn dapurt,
mannkyn dapurt huggast fær.
Ljóssins anda logabrandi,
logabrandi í myrkrið slær.



Gull í mundu gefur stundin,
gefur stundin þessi oss:
ljóssins hjarta, lífsins bjarta,
lífsins bjarta sigurhnoss.
Gull í mundu gefur stundin,
gefur stundin þessi oss.

Ljóss í gervi loks vjer hverfum,
loks vjer hverfum gegnum ský..
Herrans veldi hljómi af eldi,
hljómi af eldi kvæði ný.
Ljóss í gervi loks vjer hverfum,
loks vjer hverfum gegnum ský..

## ONWARD CHRISTIAN SOLDIERS.

Fram, fram, Kristí krossmenn!
kallar stríð oss;
hátt skal merkið hefja:
helgan Jesú kross.
Kristur fylgi fær oss,
fjendum gegn oss ver.
Áfram! Upp hans merki.
Út í stríðið vjer.
Fram, fram Kristí krossmenn!
kallar stríðið oss;
hátt skal merkið hefja:
helgan Jesú kross.

Fer hans kirkja fram sem
fari máttkur her.
Greiðum sporið; gengið
guðsmenn hafa hjer!
Deildir ei vjer erum;
einum huga nú
áfram Krists í krafti,
kenning, von og trú!
Fram, fram, o. s. frv.

Hefjast veldi heims og
hrynja þá og þá,
en hin kristna kirkja
kletti stendur á;
aldrei hnekkt fær henni
hel nje djöfla fans.
Jesúm æ vjer eigum
að og loforð hans.
Fram, fram, o. s. frv.

Áfram allur lýður!
og vorn fyllið hóp;
hefjum huga einum
heilagt sigurhróp.
Kristi, konung vorum,
kveði hátt í senn
lof um aldir alda
englar guðs og menn.
Fram, fram, Kristí krossmenn!
kallar stríð oss;
hátt skal merkið hefja:
helgan Jesú kross.

## KVÖLDSÁLMUR.

(Með sínu lagi.)

Af hljómi kirkjuklukkna er
  nú kvöldró þýðum rofin,
og brátt und væng sjer fuglinn fer
  að fela höfuð sofinn.
Nú finnast börn og fylkja sjer
  sem fuglar smáir á greinum;
en sá, sem engan að á hjer,
  ber angur í hugarleynum.

Og blæju-skugga blíðnótt fer
  bráðum heim að klæða;
en sá, sem engan að á hjer,
  fær augum lyft til hæða;

og alskygnt drottins auga sjer
og englaskarinn fríður
í náð til hvers, sem einn hjer er
og angur og sorgir líður.

Hann bætir sinna barna mein,
hann blessar háa og lága
og fugl, er hvílir hljótt á grein
með höfuð und vængnum smáa.
Hjá hvílu vorri vakir hann
og vaggar fugli á hlyni
og yfirgefur aldrei þann,
sem engum styðst hjer vini.

Því barni mest, sem einstætt er,
guðs armur hjúkrar mætur;
hann sendir engla helgan her
til hauðurs í friði nætur;

og þá er sjerhver blundar brá,
  þeir breiða út vængi glaðir;
en vöggu alheims vakir hjá
  hinn voldugi himnafaðir.

## ENGILLINN.

Með himneskum söng gegnum heiðblámans
laug
til harmdala engillinn flaug;
og hógvær skein máninn og heiðstjarnan
smá,
sem hlýddu með lotningu á.
Hann söng um það hlutskiftið indæla eitt
sem aðeins er guðsbörnum veitt.
Til vegs og til dýrðar drotni var það
hið dýrmæta ljóð, er hann kvað.

Í örmum svo viðkvæma barnssál hann bar
til bölheims í sorgirnar þar;

en ódáins hljóm inn í ungbarnsins sál
söng engilsins ljóðandi mál.
Þótt löng yrði æfin og útlegðin ströng,
það æ geymdi hljóm af þeim söng.
Og aldrei svo lífþrunginn, heilagur, hreinn
steig hljómur frá jarðdölum neinn.

## BRIGHTEST AND BEST OF THE SONS OF THE MORNING.

Dag þinn lát, mætasti morgunsins sona!
myrkrunum renna, og hönd þína' oss ljá;
austræna stjarna! sem veg gyllir vona,
vísa oss barns-ásján frelsarans á.

Svalar á reifar hans daggperlur drúpa;
dávær er hvíld hans í sauðfjárins krá;
lágt o'n að jötunni ljósenglar krjúpa,
lausnarann, skaparann, herrann að dá.

Hvort munu ilmfórnir helzt honum hæfar
helgar frá Edon og sæmd honum nóg,

gimsteinar fjalla og gljáperlur sævar,
gullið úr námum og myrran úr skóg?

Verðlausar skírustu skrautperlur skarta;
skaparann hyllir ei gullþyngjan væn;
dýrðlegra miklu er dýrkandi hjarta;
drotni er þekkari fátæklings bæn.

Dag þinn lát, mætasti morgunsins sona!
myrkrunum renna, og hönd þína' oss ljá;
austræna stjarna! sem veg gyllir vona,
vísa oss barns-ásján frelsarans á.

## JESUS LOVER OF MY SOUL.

Jesús, þú sem annt mjer æ,
eg í skaut þitt hryggur flý.
Reiðar öldur rísa á sæ,
reiðarþrumu dynja ský.
Mig þín hylji mildin há
meðan stormsins ögra grönd,
lending hjá þjer láttu ná,
ljúfi Jesús, mína önd.

Hvergi skjól eg annað á;
örmædd sál mín ferst án þín.
Vík þú ei mjer einum frá,
einkastoðin: huggun mín.
Á þjer hvílir alt mitt traust,
eg á þínar náðir flý.

Vernda barn þitt varnarlaust
  vængja þinna skugga í.

Þú ert guðs son, herra hár,
  hjálpráð meira' en nægi mjer.
Leið hinn blinda, lækna sár,
  ljá þeim hönd, sem fallinn er.
Eilíft, heilagt er þitt nafn,
  alt mitt líf er spilling háð;
stend eg veill með synda-safn;
  sannleiks ert þú ljós og náð.

Líknar-nægð þú ljómar af,
  líkn að hylja mína sekt;
elsku þinnar opna haf,
  íklæð hreinleik hjartans nekt.
Herra, þú ert lífsins lind,
  lát mig þyrstan bergja af þjer;
hreinsa mína sál af synd,
  svala þú um eilífð mjer.

# Skýringar

**við Enok Arden.**

Alfred lávarður Tennyson, sem fæddur er 6. ágúst 1809 og dáinn 6. október 1892, orti Enok Arden árið 1864. Er Enok Arden eitt af hans ágætustu skáldritum og víðlesnasta. Hann hefir verið þýddur á latinu, snúið í sjónleik og verið leikinn í Lundúnum og New York. Á sjö tungur Evrópu hefir hann verið þýddur, að ófaldri þýðing þeirri er hjer birtist. Hafa Þjóðverjar níu sinnum þýtt hann á sína tungu og Frakkar sjö sinnum, og er hann lesinn í skólum beggja þessara þjóða. Sögu þessa fiskimanns lætur skáldið gjörast á austurströnd Englands litlu eftir miðja 18. öldina.

Ánægja hefði mjer verið í því, að rita ágrip af æfi Tennysons, en rúmið leyfir það ekki. En svo mikið get eg sagt, að hann er eitt af frægustu og göfugustu stórskáldum Breta.

Aðaltilgangur minn er að gefa örfáar skýringar, einkum og sjer í lagi ungum Íslendingum, sem kynnu að freistast til að lesa þessa þýðingu mína, þeim til skilningsauka.

Á bls. 181, 8 línu:—Forn-Danir eru sagðir að vera heygðir uppi á heiðarbrún þeirri, er hjer ræðir um, og að haugar þeirra stafi frá þeim tíma er Norðmenn lögðu England undir sig.

Á bls. 187, 3. línu:—Á þeim árum var alsiða á Englandi að reisa kross á sölutorgum og víða á alfara vegum.

Á bls. 187, 6. línu:—Yviðar (ýr í nefnifalli) er skuggsælt mjög. Hjer er það kent við páfugl eða stjel hans, af því að það hefir verið tilsniðið af mannahöndum í líkingu við fugl þennan.

Á bls. 206, 13. línu:—Unga fólkið gjörði hvítar slóðir í gegnum heslikjarrið af því að laufin við fótatraðkið ranghverfðust, en þau eru hvít á neðra barðið.

Á bls. 213, 5. línu:—Höggormsegg hanga saman á seigri húð eða himnu.

272.

Á bls. 214, 1. línu:—Anna beiddist tákns, en fyltist kvíða og skelfingu, ef það veittist.
Á bls. 217, 11. línu:—Maríu-líkneskja var á þeim tímum iðulega látin standa í stafni á hafskipum.
Á bls. 217, 4. línu:—Skip þeirra Enoks, Auðnan, sigldi framhjá: "Gullöndunum góðu", þ. e. Indíalönd.
Á bls. 225, 3 línu:—Föt, sem hjer ræðir um, eru vatns-föt (casks).
Á bls. 226, 14. línu:—Upp frá gjögrum beggja þorpa kom þokan og yrjan, þ. e. a. s. frá gjörgurþorpi því, er Enok átti heima í og hinu, þar þrem röstum norðar, þar sem hann fótbrotnaði, , tók skip það er hann sigldi á, og lenti þar nú, er hann var kominn aftur.

Winnipeg 11. nóvember, 1924.

JÓN RUNÓLFSSON.

---

LEIÐRJETTINGAR.

Eftirfarandi leiðrjettingar er góðfús eigandi kversins beðinn að athuga.

Bls. 35, 10: frið himins að spegla sig megi, fyrir frið himins að spegla **jeg** megi. — Bls. 45, 9: börinin mín, fyrir **börn mín**. — Bls. 58, 11: í örmunum hennar, fyrir í **örmum** hennar. — Bls. 103, 6: eð, fyrir **með**. — Bls. 143, 10: bygð, fyrir **byrgð**. — Bls. 184, 8: en Enok, fyrir **heldur** en Enok. — Bls. 191, 13: vistaföng, fyrir **vistföng**. — Bls. 229, 1: hálf-vegengjandi, fyrir **hálf-vefengjandi**. — Bls. 229, 16: hornanna milli heyrinkunnugt gjöra, fyrir hornanna milli **og** heyrinkunnugt gjöra — Bls. 230, 4: átsblitt, fyrir **ástblitt**. — Bls. 235: hjelt honum við og hjartað lifa lét, fyrir **héldu' 'onum við og hjartað lifa ljetu.**

Í leiðrjettingum þessum eru ljóðlínurnar einungis taldar.

Arnljótur B. Olson

